# Almanak

fyrir árið

# 1915

sem er þriðja ár eftir hlaupár og fjórða ár eftir sumarauka
Reiknað eftir afstöðu Winnipegbæjar í Manitoba.

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.

## TUTTUGASTA OG FYRSTA ÁR

WINNIPEG
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1914.

## Á ÞESSU ÁRI TELJAST LIDIN VERA FRÁ KRISTS FÆÐINGU.......................1915 ár

Árið 1915 er sunnudagsbókstafur: C. Gyllinital: 16.

Milli jóla og langaföstu eru 7 vikur og tveir dagar.

### Myrkvar 1915

1. Sólmyrkvi 14. febr.; ekki sýnilegur hér. Hann sést á Indlandshafinu og í Astralíu og verður þar hringmyndaður í mjóu belti.

2. Sólmyrkvi 10. ágúst; ekki sýnilegur hér. Hann sést í austurhluta Asíu, á Kyrrahafinu og á Indlandshafinu og verður þar hringmyndaður í mjóu belti.

Tunglmyrkvi verður enginn á árinu 1915.

**Árstíðirnar.** Í Vestur-Canada er talið að

Vorið byrji.............................21. marz
Sumarið.................................21. Júní
Haustið.................................23. september
Veturinn................................22. desember

### Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

### Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef til vill lært þá venju af Babílóníu-mönnum. Það er sagt að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkerta ljós hötð fyrst frameftir til að segja mönnum hvað tímanum liði. Var áætlað að á hverri klukkustund eyddust 4 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tíma-mælir—sigurverk) í líkingu við þær sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

### Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu, frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur, fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur, páskadagur, nefnilega 25. apríl Það kom fyrir árið 1886.

---

### Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1915 | 4. April | 1918 | 31. Marz |
| 1916 | 23. April | 1919 | 20. April |
| 1917 | 8. April | 1920 | 4. April |

---

### Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er mismunurinn mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími" aftur á móti er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveim dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að „meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

### Fyrstu peningar.

Eins snemma og sögur fara af, var gull og silfur notað sem gangeyrir, en lengi vel þektist málmurinn að eins, sem smábútar eða duft, og fram á þenna dag eru margir Kínar andstæðir því, að nota mynt. Á hinum miklu eyðimörkum Afríku er kaupeyrir gullduft í ánsu tali.

Gríski sagnfræðingurinn Heródót kveður Sydíumenn þá fyrstu er slegið hafi gullpeninga og talið er að silfur hafi fyrst verið slegið á eyjunni Egina 860 árum fyrir Krist. Á fornmenjasöfnum finnast peningar slegnir á Persalandi árið 350 f. Kr. Elzta mynt sem þektist í Gyðingalandi var kölluð darisk eða kóngseyrir, eftir Darius keisara, var hún slegin um 450 árum fyrir Krist.

## VEÐURFRÆÐI HERSCHEL'S

**er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.**

Tafla þessi er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytiegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðrátta eða veðurbreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nærri því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| **Ef nýtt tungl, fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur** | **Á sumri:** | **Á vetri:** |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2. verður | Fagurt veður.................. | Frost, nema sunnanvindur sé |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum............ | Snjór og stormasamt |
| " " 4 " 6 " " .... | Regn...................... | Regn |
| " " 6 " 8 " " .... | Vindur og regn............. | Stormasamt |
| " " 8 " 10 " " .... | Breytilegt veður.............. | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri |
| " " 10 " 12 " " .... | Tíðar skúrir................. | Kalt og kvast veður |
| " " 12 " 2 e.m........ | Mjög rigningasamt........... | Snjór og regn |
| " " 2 " 4 " ....... | Breytitegt veður.............. | Fagurt veður og hlýtt |
| " " 4 " 6 " ........ | Fagurt veður............. | Fagurt veður |
| " " 6 " 8 " ........ | Fagurt, sé vindur af norðvestri.. | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n.a. |
| " " 8 " 10 " ........ | Rigning, sé vindur af s. eða s.v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " " 10 " miðnættis....... | Fagurt...................... | Fagurt veður með frosti. |

## Fastastjörnur.

Föstum stjörnum er skift í flokka eftir birtu þeirra. Stjarna, sem gefur frá sér birtu á móts við meðal birtu tuttugu björtustu stjarnanna, sem sjást, er stjarna hinnar fyrstu stærðar (Magnitude) Smærri stjörnur en sjöttu stærðar sjást ekki með berum augum. fyrstu stærðar stjörnur eru hundrað sinnum bjarari en þær. Með berum augum má sjá um 5,000 stjörnur og er tala þeirra í flokkum þannig:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Fyrstu | stærðar um | 20 | Fjórðu | stærðar um | 425 |
| Annarar | " " | 65 | Fimtu | " " | 1100 |
| Þriðju | " " | 190 | Sjötta | " " | 3200 |

Sjónauki, þrjá þumlunga í þvermál, sýnir um 324,188 stjörnur. Flestir sjónaukar notaðir uið stjörnufræðislegar athuganir eru miklu stærri og sýna því náttúrlega fleiri stjörnur.

Bjartasta fastastjarnan heitir Sirius. Hún skipar að réttu lagi sess út af fyrir sig. Hún er miljón sinnum lengra frá jörðinni en sólin. Hún hefir fylgihnött sem er sjö sinnum þyngri en sól vor. Siríus er fimm þúsund sinnum bjartari en fylgihnöttur hans, en er að eins tvöfalt þyngri. Þessi fylgihnöttur fer hringferð sína um Siríus á fjörutíu og níu árum eftir því sem næst verður komist.

Fjarlægð fastastjarnanna er jafnan miðuð við tímann sem ljósið þarf til að ferðast frá þeim til jarðarinnar. Ljóshraðin er um 186.300 mílur á **sekundu**. Ljósár er sú vegalengd nefnd sem ljósið ferðast yfir á heilu ári. Fjarðlægð stjarnanna er því mæld í ljósárum.

Fáar fastastjörnur eru svo nálægar að mögulegt sé að mæla hve langt þær eru í burt. Sú sem er næst er að eins þrjú ljósár í burt. Aftur á móti er vegalengdin til Arcturus um hundrað ljósár. Arcturus er þrettáu hundruð sinnum bjartart en sól vor; og nálgast jörðina með fimm mílna hraða á sekúndunni.

Vega er um þrjátíu ljósár í burt; og nálgast með tíu mílna hraða á sekúndunni. Eftir tólf þúsund ár verður hún orðinn pólstjarna vor.

---

## Stærst í heimi.

Mesti banki heimsins er Englandsbankinn í Lundúnum; elzti háskóli er University College í Oxford, stofnaður 1050; stærsta bókasafn heimsins er landsbókasafnið í París, er hefir næstum því 3,000,000 binda.

Stærsta leikhús heimsins er sönghöllin í París og er landspildan er hún stendur á þrjár ekrur að stærð; stærsta bronze-líkneski er standmynd Péturs mikla í St. Pétursborg, er vigtar 1100 tonn. Stærsta steinlíkneski er í Japan og er 44 feta hátt; stærsti háskóli er í Cairo, þar eru 10,000 nemendur og 310 kennarar.

Dýpsta kolanáma er skamt frá Lambert í Belgíu og er 3,500 feta djúp, stærsta skipakví er í Cardiff í Wales, rafmagnslampi sá er mest ljósmagn hefir er í vitanum við Sidney í Ástralíu, en stærsti vitaturn heimsins stendur á Cape Henry í Virginía og er hann 165 fet á hæð.

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | Fyrir Krists burð. |
|---|---|
| Fall Trójuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagoborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nabúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Týtusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn við Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlandshaf | 1815 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnað | 1867 |

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af 894.
Fyrstu lög og alþingi sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örligur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum, 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson prestur, 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklugos er sögur fara af, 1104.
Fyrsta klaustur reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svartidauði geisaðl, 1402.
Seinni plágan, 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur Lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýjatestamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.
Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti, 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi biskup 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk, 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625, (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Holum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geisaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Víbalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á slandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkúr 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnuminn 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið að Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sett í Leirárkirkju 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Landið gjört að bískupsdæmi 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808).
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnuð 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sígurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Reykjavíkur 1844.
Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossasala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stöfnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871
Settur háskóli í Reykjavík 1911.

## Stærð úthafanna.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið | " " | 30,592,000 | " | " | " |
| Indlandshafið | " " | 17,084,000 | " | " | " |
| Atlantshafið | " " | 24,536,000 | " | " | " |
| Kyrrahafið | " " | 50,309,000 | " | " | " |

**Lengstur dagur.**

| | klt. | m. |
|---|---|---|
| Reykjavík | 20 | 56 |
| Pétursborg | 18 | 38 |
| Stokkhólmi | 18 | 35 |
| Edinborg | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 | 20 |
| Berlin | 16 | 40 |
| London | 16 | 34 |
| París | 16 | 05 |
| Victoria, B. C. | 16 | 00 |
| Vínarborg | 15 | 56 |
| Boston | 15 | 14 |
| Chicago | 15 | 08 |
| Miklagarði | 15 | 04 |
| Cape Town | 14 | 20 |
| Calcutta | 13 | 24 |

**Þegar klukkan er 12**

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e. h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinborg | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5,17 | " |
| Róm | 5,53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indland | 11.01 | " |
| Peking, Kína | 12.54 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía. | 3.48 | " |
| San. Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád |

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þenna baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

# JANÚAR hefir 31 dag 1915

MÖRSUGUR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Nýársdagur—F⊙ullt 5.51 f. m. |
| L | 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1865—11 v.v. |

*Barnamorðið í Betlehem. Matt. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 3 | S. e. nýár |
| M | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 |
| Þ | 5 | Stjórnarskrá Íslands 1874 |
| M | 6 | su. 7.56, sl. 4.18 Þrettándi (jóladagurinn gamli) |
| F | 7 | Knútsdagur—Eldbjargarmessa |
| F | 8 | Ól. Hjaltason, bisk. d. 1569—☽ S. kv. 2.44 e. m. |
| L | 9 | Napóleon 3. d. 1873 — 12. v. vetrar |

*Þegar Jesús var tólf ára, Lúk. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 10 | 1. s. e. þrettánda |
| M | 11 | Brettívumessa |
| Þ | 12 | Gissur jarl Þorvaldsson d. 1268 |
| M | 13 | su. 7.52, sl. 4.27—Geisladagur |
| F | 14 | Magnús lögmaður Ólafsson d. 1800 |
| F | 15 | Hilmar Finsen d. 1886—● Nýtt 9.26 f. m. |
| L | 16 | BritishMuseum opnað 1759 — 13. v. vetrar |

*Brúðkaupið í Kana, Jóh. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 17 | 2. s. e. þr.—Benjamín Franklín f. 1706 |
| M | 18 | B. Lytton d. 1873 |
| Þ | 19 | Gullið fundið í Californíu 1848 |
| M | 20 | su, 7.46, sl. 4.37—Bræðramessa |
| F | 21 | Agnesarmessa |
| F | 22 | Miður vetur — ÞORRI |
| L | 23 | Gustav Doré dáinn 1882-☾F.kv.0.16 f.m.-14.v.v. |

*Jesús gekk ofan af fjallinu, Matt. 8.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 24 | 3. s. e þr.—Friðrik mikli f. 1712 |
| M | 25 | Pálsm.—Kirkjufélag Ísl. í Vesturh. stofnað 1885 |
| Þ | 26 | |
| M | 27 | su. 7.39, sl 4.49—Mósart f. 1756 |
| F | 28 | Holberg danska skáldið d. 1754 |
| F | 29 | |
| L | 30 | ⊙ Fullt 10.12 e. m. — 15. v. vetrar |

*Verkamenn í víngarði, Matt. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 31 | Níuviknafasta—Dr. Guðbr. Vigfússon d. 1889 |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1914

| | | |
|---|---|---|
| | | ÞORRI |
| M | 1 | Brigildarmessa—Ráðherrastjórn Íslands 1904 |
| Þ | 2 | Kyndilmessa—Heitdagur Norðlendinga 1365 |
| M | 3 | su. 7.31, sl. 4,57—Blasíusmessa—Mendelhson |
| F | 4 | [Bartholdy f. 1809 |
| F | 5 | |
| L | 6 | 16. v. vetrar |

*Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 2.s. í f.-Charles Dickens f.1812-☽S.kv.10.45 e.m. |
| M | 8 | Pétur mikli d. 1725 |
| Þ | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 |
| M | 10 | su.7.20,sl.5.08—Canada afh. Englendingum 1763 |
| F | 11 | Bellman tónfræð. d. 1795 |
| F | 12 | Abraham Lincoln f. 1809 |
| L | 13 | 17. v. vetrar |

*Skírn Krists, Matt. 3.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | Langafasta-Lúters síð. préd. 1546-●N.10.02 e.m |
| M | 15 | |
| Þ | 16 | Melankton fæddur 1479—Sprengikvöld |
| M | 17 | su. 7.07, sl. 5.21—Angeló d. 1563 Öskudagur |
| F | 18 | Lúter dáinn 1546 |
| F | 19 | N. Kópernikus f. 1473 |
| L | 20 | Styrmir fróði d. 1245—Þorraþræll 18. v. v. |

*Djöfullinn freistar Jesú, Matt. 4.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 1. s. í föstu—☾ F. kv. 8.29 e. m. GÓA |
| M | 22 | Washington f. 1732 |
| Þ | 23 | |
| M | 24 | su. 6.55, sl. 5.32 |
| F | 25 | |
| F | 26 | |
| L | 27 | Longfellow fæddur 1807 19. v. vetrar |

*Kanverska konan, Matt. 15.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 2. s. í föstu—Klængur bisk. Þorsteinsson d. 1176 |

MARZ hefir 31 dag 1915

GÓA

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | John Westley dáinn 1791 — 🌕 Fullt 0.04 e. m. |
| Þ | 2 | Sett 1. þing Bandaríkjanna 1781 |
| M | 3 | su. 6.44, sl. 5.41—Jónsmessa (h. f.) |
| F | 4 | Sigurður Breiðfjörð f 1798 |
| F | 5 | |
| L | 6 | 20. v. vetrar |

*Jesús rak út djöful, Lúk. 11.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 3. s. í föstu |
| M | 8 | Jón Thoroddsen dáinn 1868— 🌗 S. kv. 5.59 e. m |
| Þ | 9 | Bardag. milli Merrimac og Monitor 1862 |
| M | 10 | su. 6.30 sl. 5.53 |
| F | 11 | |
| F | 12 | Síra Páll Þorláksson d. 1882 |
| L | 13 | Dr. Guðbr. Vigfússon f. 1827 21. v. vetrar |

*Jesús mettar 5000 manna, Jóh. 6.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | Miðfasta |
| M | 15 | 🌑 Nýtt 1.13 e. m., páskatungl |
| Þ | 16 | Gvöndardagur (Guðm. góði Hólab. d. 1237) |
| M | 17 | su.6.16,sl.6.04--Magnús Stephensen(gamli)d.1833 |
| F | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| F | 19 | Davíð Livingstone f. 1813 |
| L | 20 | 22. v. vetrar |

*Gabríel engill sendur, Lúk. 1.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 5. s. í föstu—Benediktsmessa—Jafndægur |
| M | 22 | Göthe d. 1832—Góuþræll |
| | | EINMÁNUÐUR |
| Þ | 23 | Riels uppr.í Canada hefst 1885—🌓 F.kv.4.19 e.m |
| M | 24 | su. 5.59, sl. 6.13—Albert Thorvaldssen d. 1844 |
| F | 25 | Boðunardagur Marín |
| F | 26 | Bethoken tónfræð. d. 1827 |
| L | 27 | John Bright d. 1889 23. v. vetrar |

*Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 2.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | Pálmasunnudagur—Dymbilvika |
| M | 29 | Jón Eiríksson, konferensráð d. 1787 |
| Þ | 30 | |
| M | 31 | su. 5.42, sl. 6.25— 🌕 Fullt 11.09 e. m. |

# APRÍL hefir 30 daga 1915

EINMÁNUDUR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Skírdagur—Bismark f. 1813 |
| F | 2 | Föstudagurinn langi—Gambetta f. 1838 |
| L | 3 | 24. v. vetrar |

*Krists upprisa, Mark. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 4 | Páskadagur—Oliver Goldsmith d. 1744 |
| M | 5 | |
| Þ | 6 | ☽ Síð. kv. 1.43 e. m. |
| M | 7 | su. 5.27, sl. 6.36 |
| F | 8 | Kristján IX. f. 1818 |
| F | 9 | Kr. Jónsson, skáld d. 1869 |
| L | 10 | Þórður Sturluson d. 1237 — 25. v. vetrar |

*Jesús kom að luktum dyrum, Jóh. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 11 | 1. s. e. páska |
| M | 12 | |
| Þ | 13 | |
| M | 14 | su. 51.5, sl. 64.7—🌑 Nýtt 5.7 f. m., sumartungl |
| F | 15 | Abraham Lincoln skotinn 1865 |
| F | 16 | Magnúsmessa (Eyjajarls h. f.) |
| L | 17 | Franklín d. 1790 — Sumarmál af 26. v. vetrar |

*Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 18 | 2. s. e. páska |
| M | 19 | Melankton dáinn 1560 |
| Þ | 20 | Darvin d. 1882 |
| M | 21 | su. 4.59, sl. 6.58 |
| | | HARPA |
| F | 22 | Sumaadagur fyrsti—☾F.kv.9.10 f.m.—1.v. sum. |
| F | 23 | Jónsmessa (Hólab. h. s. d. 1121) |
| L | 24 | Daníel Defoe d. 1731 |

*Krists burtför til föðursins, Jóh. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 25 | 3. s. e. páska—Oliver Cromwell f. 1599 |
| M | 26 | Þrælast. hætti 1865—Björnstjerne Björnss.d.1910 |
| Þ | 27 | Herbert Spence f. 1820 |
| M | 28 | su. 44.6, sl. 7.08 |
| F | 29 | Krímstríðið hætti 1856-🌕F.7.03 f.m.—2. v. sum. |
| F | 30 | |

# MAÍ hefir 31 dag 1915

HARPA

L 1 | Tveggja postula messa

*Sending heilags anda, Jóh. 16.*

S 2 | 4. s. e. páska—Karl Linné f. 1707
M 3 | Krossmessa á vori (fundinn krossinn)
Þ 4 |
M 5 | su. 4.25, sl. 7.28—Napóleon Bonaparte d. 1821
F 6 | ☽ Síð. kv. 10.54 f. m. 3. v. sumars
F 7 |
L 8 | John Stuart Mill d. 1873

*Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.*

S 9 | 5. s. e. páska—Helgavika
M 10 | Eldaskildagi
Þ 11 |
M 12 | su. 4.16, sl. 7.38—John Herschel d. 1871
F 13 | ● Nýtt 9.02 e. m. 4. v. sumars
F 14 | Vinnuhjúaskild.
L 15 | Hallvarðsmessa—P. biskup Pétursson d. 1891

*Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.*

S 16 | 6. s. e. páska
M 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841
Þ 18 | Magnús prest. Jónsson, Grenjaðarstað d. 1889
M 19 | su. 4.05, sl. 7.49—Gladstone d. 1898
F 20 | 5. v. sumars
F 21 | Chr. Columbus d. 1506 SKREFLA
L 22 | Dýrid.—Sæm. fróði d. 1133—☾ F. kv. 10.21 e.m

*Hver mig elskar, Jóh. 14.*

S 23 | Hvítasunnudagur—Helga vika—H. Ibsen d. 1906
M 24 | Victoria drottning f. 1819.—Kopernicus d. 1543
Þ 25 | Úrbanusmessa
M 26 | su. 3.58, sl. 7.58—Jónas Hallgrímsson d. 1845
F 27 | Calvín d. 1564 6. v. sumars
F 28 | Gissur biskup Ísleifsson d. 1118—○ F. 3.04.e.m.
L 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888

*Kristur og Nikódemus, Jóh. 3.*

S 30 | Trinitatis—Eggert Ólafsson d, 1768
M 31 | Jón Guðmundsson, ritstj. d. 1875

## JÚNÍ hefir 30 daga 1915

SKERPLA

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | Garibaldi d. 1883 | |
| M | 2 | su. 3.52 sl. 8.05 | |
| F | 3 | Haukur Erlendsson d. 1334 | 7. v. vetrar |
| F | 4 | Vísi-Gísli d. 1696—☽ Síð. kv. 10.3 f. m. | |
| L | 5 | Ólafur tóni Þorleifsson eldri d. 1393 | |

*Hinn auðugi maður, Lúk. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 1. s. e. trin.—Alexander mikli d. 365 f. Kr. | |
| M | 7 | Tómas Sæmundsson f. 1807 | |
| Þ | 8 | Jón Hjaltalín, landlæknir d. 1882 | |
| M | 9 | su. 3.60, sl. 8.09—Charles Dickens d. 1870 | |
| F | 10 | | 8. v. sumars |
| F | 11 | | |
| L | 12 | W. C. Bryant d. 1878—● Nýtt 0.28 e. m. | |

*Hin mikla kvöldmáltíð, Lúk. 14.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 2. s. e. trin.—Jón Sveinsson, landlæknir d. 1803 | |
| M | 14 | Steingrímur biskup Jónsson d. 1845 | |
| Þ | 15 | | |
| M | 16 | su. 3.49, sl. 8.13 | |
| F | 17 | Jón Sigurðsson f. 1811 | 9. v. sumars |
| F | 18 | Bardaginn við Waterloo 1815 (100 ár) | |
| L | 19 | Björn ritstj. Jónsson Norðanfara d. 1886 | |

*Hinn týndi sauður, Lúk. 15.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 3. s. e. trin.—☾ F. kv. 7.55 f. m. | |
| M | 21 | Kristján Jónsson, skáld f. 1843 | SÓLMANUDUR |
| Þ | 22 | Sólstöður; lengstur dagur | |
| M | 23 | su. 3.51, sl. 8.14 | |
| F | 24 | Jónsm.—Kristni lögt. á Ís. 1000 | 10. v. sum. |
| F | 25 | Ágsborgarjátningin 1530 | |
| L | 26 | Jón alþm. á Gautl. d. 1889 | |

*Verið miskunsamir, Lúk. 6.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 4. s. e. trin.—○ Fullt 9.59 e. m. | |
| M | 28 | Björn á Skarðsá d. 1648 (f. 1690) | |
| Þ | 29 | Pétursmessa og Páls. | |
| M | 30 | su. 4.39, sl. 8.4—Jón biskup Vigfússon d. 1690 | |

# JÚLÍ hefir 31 dag 1915

SÓLMÁNUÐUR

| | | |
|---|---|---|
| F 1 | Dominiondagur | 11. v. sumars |
| F 2 | Þingmaríum. (vitjunard. Maríu)—Sviðhúnsm. h. f. | |
| L 3 | Konráð Gíslason f. 1808—Magn. Eiríksson d. 1881 | |

*Jesús kennir af skipi, Lúk. 5.*

| | | |
|---|---|---|
| S 4 | 5.s.e.trin.—☽S.kv.11.25.f.m.—Frelsisd. Banda- | |
| M 5 | Ísleifur bisk. Gissursson d. 1080 [ríkjanna (1776) | |
| Þ 6 | Jóhann Huss brendur 1415 (500 ár) | |
| M 7 | su. 4.01, sl. 8.10 | |
| F 8 | Seljumannamessa | 12. v. sumars |
| F 9 | | |
| L 10 | Jóhann Calvin f. 1509 | |

*Réttlœti faríseanna, Matt. 5.*

| | | |
|---|---|---|
| S 11 | 6. s. e. trin.—Benediktsmessa | |
| M 12 | Julius Cæsar f. 100 f. Kr.—● Nýtt 3.2 f. m. | |
| Þ 13 | Margrétarmessa | |
| M 14 | su. 4.06, sl. 8.04 | |
| F 15 | Sviðhm. h.s.—Krossfarendur | 13. v. snmars |
| F 16 | [tóku Jerúsalem (1099) | |
| L 17 | | |

*Jesús mettar 4000 manna, Mark. 8.*

| | | |
|---|---|---|
| S 18 | 7. s. e. trin.—Jón píslarvottur Þorsteinss. d. 1627 | |
| M 19 | ☾ F. kv. 2.40 e. m. | |
| Þ 20 | Þorláksmessa (á sumri)—Guðbrandur bisk. d. 1627 | |
| M 21 | su. 4.15, sl. 7.55—Robert Burns d. 1796-Aukanætur | |
| F 22 | Kolbeinn ungi Arnórss. d. 1247 | 14. v. sumars |
| F 23 | Hundad. byrja—Hvamm-Sturla d. 1183 | |
| L 24 | | |

*Um falsspámenn, Matt. 7.*

HEYANNIR

| | | |
|---|---|---|
| S 25 | 8. s. e. trin.—Jakobsmessa | Miðsumar |
| M 26 | ○ Fullt 5.42 f. m. | |
| Þ 27 | Atlanshafs-ritsíminn fullgerður 1866 | |
| M 28 | su. 4.27, sl. 7.44—Kopavogseiðar 1662 | |
| F 29 | Ólafsmessa h. f. | 15. v. sumars |
| F 30 | William Penn d. 1718—Bismark d. 1898 | |
| L 31 | Kolbeinn kaldaljós Arnórsson d. 1246 | |

## ÁGÚST hefir 31 dag 1915

HEYANNIR

*Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.*

| | |
|---|---|
| S 1 | 9. s. e. trin.—Bandadagur—Jón Espólín d. 1836 |
| M 2 | Ben. Sveinsson, sýslum. d. 1899—☽ S. kv. 2.58 e. m. |
| Þ 3 | Ólafsmessa—Þormóður Kolbrúnarskáld d. 1030 |
| M 4 | su. 4.25, sl. 7.36—H. C. Anderson d. 1875 |
| F 5 | Br. Sveinsson, biskup d. 1675 16. v. sumars |
| F 6 | Krists dýrð—Brandur bisk. Sæmundsson d. 1201 |
| L 7 | Spánska flotanum eytt 1588 |

*Jesú grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.*

| | |
|---|---|
| S 8 | 10. s. e. trin.—Canning d. 1827 |
| M 9 | Capt. Marryat d. 1818 |
| Þ 10 | Lárentiusarmessa—● Nýtt 4.23 e. m. |
| M 11 | su. 4.48, sl. 7.24—Jón próf Steingrímss. d. 1791 |
| F 12 | 17. v. sumars |
| F 13 | Bóluhjálmar d. 1875. |
| L 14 | Þórður biskup Þorláksson f. 1637 |

*Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18*

| | |
|---|---|
| S 15 | 11. s. e. trin.—Maríumessa h. f.—Napóleon |
| M 16 | [mikli f. 1769 |
| Þ 17 | Sveinbjörn Egilsson d. 1852—☾ F. kv. 7.48 e. m |
| M 18 | su. 4.56, sl. 7.99 |
| F 19 | Gestur Pálsson d. 1891 18. v. sumars |
| F 20 | William Booth d. 1912 |
| L 21 | Njálsbrenna 1011—Stgr. Thorsteinsson d. 1913 |

*Sá hinn daufi og málhalti, Mark. 7.*

| | |
|---|---|
| S 22 | 12. s. e. trin.—Symphoníanusmessa |
| M 23 | |

TVÍMANUÐUR

| | |
|---|---|
| Þ 24 | Hundadagar enda-B. Thor. d. 1841-○ F. 3.11 e. m |
| M 25 | su. 5.07, sl. 6 56—Pétur Guðjónssen d. 1877 |
| F 26 | Ágústin d. 430 19. v. sumars |
| F 27 | Finnur Magnússon f. 1781 |
| L 28 | Göethe f. 1749 |

*Hinn miskunsami Samverji, Lúk. 10.*

| | |
|---|---|
| S 29 | 13. s. e. trin.—Höfuðd.—Jóh. skírari hálshöggvinn |
| M 30 | Jón biskup Vidalín d. 1720 |
| Þ 31 | Jón konferenzráð Eiríksson f. 1728 |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1915

Tvímanudur

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | su. 5.18, sl. 6.41—☽ Síð. kv. 8.28 f. m. |
| F | 2 | Grundtvig d. 1872 20. v. sumars |
| F | 3 | Cromwell d. 1658 |
| L | 4 | Franska lýðv.stofn.1870-Jón Árnas.bókav.d.1888 |

*Tíu líkþráir, Lúk. 17,*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 14. s. e. trin. |
| M | 6 | McKinley forseti skotinn 1901 |
| Þ | 7 | Ólafur Davíðsson d. 1903 |
| M | 8 | su. 5.28, sl. 6 26—Maríum.—Jerúsalem hert. 70 |
| F | 9 | Svoldaror. 1000. Fall Ólafs Tryggvas. 21.v.s. |
| F | 10 | [●Nýtt 4.24 f. m. |
| L | 11 | |

*Enginn kann tveim herrum að þjóna, Matt. 6.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 15. s. e. trin.—Bard. við Queðec. Fall Wolfs |
| M | 13 | Bretar taka Quebec 1759 [hersh. 1759 |
| Þ | 14 | Wellington d. 1852 |
| M | 15 | su. 6.38 sl. 6.11 |
| F | 16 | Moscow-borg brend 1812-☾F.kv.0.52 f.m 22.v.s |
| F | 17 | Willard Fiske d. 1904 |
| L | 18 | Fyrsti banki á Íslandi 1885 |

*Ekkjunnar sonur af Nain, Lúk. 7.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 16. s. e. trin. |
| M | 20 | Walter Scott d.1832—Geir biskup Vídalín d.1823 |
| Þ | 21 | Mattheusmessa |
| M | 22 | su. 5.50, sl. 5.55 |
| | | Haustmanudur |
| F | 23 | Snorri Sturluson veginn 1241-☺F.3.06 f.m.-23.v.s |
| F | 24 | Jafndægur á hausti |
| L | 25 | Björn Gunnlaugsson f. 1788 |

*Vatnssjúki maðurinn, Lúk. 14.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 17. s. e. trin.—Kristján X. Danakon. f. 1870 |
| M | 27 | Eyrsta járnbraut á Englandi 1825 |
| Þ | 28 | L. Pasteur d. 1895 |
| M | 29 | su. 6.00, sl. 5.39 |
| F | 30 | Hítardalsbrenna 24. v. sumars |

OKTÓBER hefir 31 dag 1915

HAUSTMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| F 1 | ☽ Síð. kv. 3.15 f. m. | |
| L 2 | | |
| | *Hvers son er Kristur? Matt. 22.* | |
| S 3 | 18. s. e. trin.—Pétur Pétursson biskup f. 1808 | |
| M 4 | | |
| Þ 5 | Jón Thoroddsen f. 1819 | |
| M 6 | su. 6.11, 5.25—Eldadagar—Tennyson d. 1892 | |
| F 7 | Edgar Poe d. 1849 | 25. v. sumars |
| F 8 | ● Nýtt 3.13 f. m. | |
| L 9 | Chicago brann 1871—Diónýsíusmessa | |
| | *Limafallssjúki maðurinn, Matt. 9.* | |
| S 10 | 19. s. e. trin. | |
| M 11 | | |
| Þ 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | |
| M 13 | su. 6.25, sl. 5.10 | |
| F 14 | Kalixtusmessa | 26. v. sumars |
| F 15 | Gregoriska tímatalið innleitt 1582—☾F.5.46 e.m | |
| L 16 | | |
| | *Brúðkaupsklœðin, Matt. 22.* | |
| S 17 | 20. s. e. trín. | |
| M 18 | Lúkasmessa—Brynjólfur Pétursson d. 1851 | |
| Þ 19 | Jónat Swift d.1745—Einar Ásmunds.í Nesi d.1893 | |
| M 20 | su. 6.33, sl. 4.50 | |
| F 21 | Síra Jón Þorláksson d. 1819 | Veturn. af 27. v.s. |
| F 22 | Jón Espólín f. 1769—Flugumýrarbrenna 1253 | |
| | | GORMANUDUR |
| L 23 | W.Penn steig á land í Amer.1681-F.vetrard.-1.v.v | |
| | *Konungsmaðurinn, Jóh. 4.* | |
| S 24 | 21. s. e. trín. | |
| M 25 | | |
| Þ 26 | Moltke hersh. f. 1800 | |
| M 27 | su. 6.44, sl. 4.42—Síra Hallgr. Pétursson d.1674 | |
| F 28 | Howard-háskólinn stofnaður 1636 | |
| F 29 | Síra Arnljótur Ólafsson d. 1904 | |
| L 30 | Gambetta f. 1832 | 2. v. vetrar |
| | *Tíu þúsund punda, Matt. 18.* | |
| S 31 | 22.s.e.tr.-Reformation Lút.1517-☽S.kv.10.11e.m | |

## NÓVEMBER hefir 30 daga 1915

GORMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M 1 | Allra-heilagra-messa—Jón Loptsson í Odda d. 1197 | |
| Þ 2 | Esajas Tegnér d. 1846—Allra-sálna-messa | |
| M 3 | su. 6.57, sl. 4.30 | |
| F 4 | | |
| F 5 | | |
| L 6 | Fall Gustafs Adolds 1632 | 3. v. vetrar |

*Jesús prédikar um sælu, Matt. 5.*

| | | |
|---|---|---|
| S 7 | 23. s.e. trín.—Jón Arason lífl. 1550—●N. 1.23. f. m | |
| M 8 | | |
| Þ 9 | Skúli landfóg. d. 1794—Ari Þorgilsson d. 1148 | |
| M 10 | su. 8.08, sl. 4.20—Lúter f. 1483 | |
| F 11 | Marteinsmessa—Williard Fiske f. 1831 | |
| F 12 | | |
| L 13 | ☾F. kv. 4.34 e. m. | 4. v. vetrar |

*Konan blóðfallssjúka, Matt. 9.*

| | | |
|---|---|---|
| S 14 | 24. s. e. trín. | |
| M 15 | | |
| Þ 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 | |
| M 17 | su. 7.19, sl. 4.13—Sues-skurðurinn opnaður 1869 | |
| F 18 | Hannes stiptamtm. Finsen d. 1892 | |
| F 19 | Albert Thorvaldsen f. 1770 | |
| L 20 | Vígð Hóladómkirkja 1763 | 5. v. verrar |

*Viðurstygð eyðileggíngarinnar, Matt. 24.*

| | | |
|---|---|---|
| S 21 | 25. s. e. trín.-Maríum; þríhelgar-☺ F. 11.05 e.m. | |
| | | YLIR |
| M 22 | Ceselíumessa | |
| Þ 23 | Klemensmessa | |
| M 24 | su. 7.30, sl. 4.05—Björn ráðh. Jónsson d. 1912 | |
| F 25 | Katrínarmessa | |
| F 26 | Konráðsmessa | |
| L 27 | Grímur Thomsen d. 1896 | 6. v. vetrar |

*Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21.*

| | |
|---|---|
| S 28 | 1. s. í jólaföstu Aðventa |
| M 29 | ☽Síð. kv. 3.31 e. m. |
| Þ 30 | Andrésmessa |

# DESEMBER hefir 31 dag 1915

Ýlir

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | su. 7.39, sl. 3.59—Eggert Ólafsson f. 1726 |
| F | 2 | Bardaginn við Austerlitz 1805 |
| F | 3 | Steinn biskup Jónsson d. 1739 |
| L | 4 | Helgi biskup Thordersen 1867 |

*Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 2. s. í jólaföstu—Mozart d. 1791 |
| M | 6 | Nýtt 11.35 f. m.—Bened.próf.Kristjánss.d.1903 |
| Þ | 7 | Jón Sigurðsson d. 1879 |
| M | 8 | su. 7.47, sl. 3.57—Maríumessa |
| F | 9 | Milton f. 1608—Gústaf Adolf f. 1594 |
| F | 10 | Alexander Dumas, sr. d. 1872 |
| L | 11 | 8. v. vetrar |

*Jóhannes í böndum, Matt. 11.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 3. s. í jólaföstu—Skúli fógeti f. 1711 |
| M | 13 | F. kv. 5.09 f. m.—Lucíumessa |
| Þ | 14 | George Washington d. 1799 |
| M | 15 | su. 7.54, sl. 3.57—Imbrudagar—Sæluvika |
| F | 16 | Beethoven f. 1770 |
| F | 17 | Páll amtm. Briem d. 1904 |
| L | 18 | 9. v. vetrar |

*Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 4. s. í jólaföstu—Björn próf. Halldórsson d. 1882 |
| M | 10 | Stefán amtm. Stephensen d. 1820 |
| Þ | 21 | Tómasmessa—F. 6.23 f. m. |
| | | Mörsugur |
| M | 22 | su. 7.57, sl. 4.01—Sólhvörf; skemstur dagur |
| F | 23 | Þorláksmessa—Páll Ólafsson skáld d. 1905 |
| F | 24 | Aðf.d. jóla-Nóttin helga-Finnur Magnúss. d. 1847 |
| L | 25 | Jóladagur—Heitdag. Eyf.í Svartad.1402—10.v.v. |

*Spekingar og skriftlærðir, Matt. 23.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | Annar í jólum |
| M | 27 | Magnús konf. Stephensen f. 1762 |
| Þ | 28 | Oddur Einarsson biskup d. 1630 |
| M | 29 | su.7.69, sl.4.04-Gladstone f.1809-S.kv.6.30 f.m |
| F | 30 | Bjarni Thorarensen f. 1786 |
| F | 31 | Gamlársdagur—Léon Gambetta d. 1882 |

# Almanak.

21. ár. Winnipeg 1915

## *HERBERT HENRY ASQUITH.*

---

Forsætis-ráðherra Englands, *Herbert Henry Asquith*, er einn þeirra manna, sem nú þykir mest kveða að í heiminum. Íslenzkum lesendum ætti því að verða sem bezt kunnugt um hann og æfistarf hans. Ekki sízt vegna þess, að hann verður sjálfsagt talinn í hópi þeirra, er mest áhrif hafa á þá stórviðburði, sem nú eru að gerast.

Hann er fæddur 12. september 1852 í bænum Morley í York-skíri. Hét faðir hans Joseph Dixon Asquith og var af meðal-borgara ættum Englands, frjálslyndur í stjórnmálum og frábrigðingur (*Nonconformist)* í trúmálum, fremur fátækur maður, svo sonur hans hefir alls engin auðæfi haft við að styðjast. Hann lézt, er Herbert var tíu ára gamall, hafði verið verksmiðjueigandi í smáum stíl og skildi fjölskyldu sína eftir við fremur þröngan efnahag. Mentan sína fekk Herbert því við alþýðuskóla Lundúnaborgar. Inn á háskólann í Öxnafurðu komst hann einungis fyrir dugnað sinn og ástundan við nám og með því móti að ná í hvern námstyrkinn á fætur öðrum. Við háskólann hélt hann því áfram, náði þar í *Craven*-námstyrkinn og var korinn *félagi* skólans, forseti námsmannafélagsins, og náði yfirleitt öllum þeim heiðri

sem námsmannalífið þar hefir að veita. Dr. *Jowett,* Balliol-College-kennarinn frægi, taldi hann einn efnilegasta ungan mann, er hann hefði haft undir hendi. Þessu áliti sínu þrýsti hann saman í örfá orð, er höfð hafa verið í minnum: „Asquith verður heppinn; hann er svo hreinn og beinn". Sá spádómur hefir rætzt. Hann hefir unnið hvern sigurinn á fætur öðrum með góðum gáfum, dugnaði og réttsýni.

Að loknu lögfræðinámi gerðist hann málaflutningsmaður. En er hann tók að reka mál fyrir rétti, var hann öldungis ókunnur hinum eldri lögmönnum. En ungir lögfræðingar eiga örðugt uppdráttar í Lundúnum, án þess að eiga gamlan og voldugan hauk í horni, hópi hinna eldri manna. Varð Asquith að halda sér uppi með fram með því að semja ritgerðir um hagfræði fyrir tímarit og helztu dagblöð. Sem málaflutningsmaður vann hann sér ekki neina glæsilega frægð alt í einu. En hann var svo heppinn að verða viðriðinn nokkur mál, sem mikið þótti til koma og mikla eftirtekt vöktu. Með Sir Charles Russell varði hann írska þjóðernisflokkinn fyrir *Parnell*-nefndinni í málinu sögulega, sem spanst út af *Piggott*-fölsununum. Þar þvældi hann ráðsmann Lundúnablaðsins *Times, Mr. McDonald,* svo með spurningum, að hann varð frægur fyrir. „Takið þér hann, Asquith: þér munuð ganga nógu vel frá því", sagði Sir Charles Russell, sem var aðal-flutningsmaður Parnells. Hann gekk svo vel frá því, að McDonald þessi hafði svo fyrirgert áliti sínu í blaðamannaheiminum, er hann steig úr vitnasessinum, að hann átti enga viðreisnar-von og varð að segja upp stöðu sinni. Síðar var þetta gert að efni í beiska árás á Asquith í parlamentinu af *Thomas Healy* (30. marz 1908).

Sjálfsagt hefði Asquith orðið frægur maður fyrir málarekstur sinn við dómstólana. Samt verður hann ekki í minnum hafður sem lögmaður, enda á það að

hafa verið á vitorði allra stéttabræðra hans þar, að hann myndi ekki eyða allri æfi við flutning mála. Þó hann þætti fyrirtaks greina-glöggur og ljós, voru þó aðrir, sem eigi létu hann standa sér á sporði, og urðu honum fremri. *Haldane* lávarður sagði um hann í samsæti, er haldið var honum til heiðurs af frjálslynda klúbbnum *Áttatíu* (svo nefndur eftir árinu 1880), skömmu eftir að hann var orðinn forsætisráðherra: ,,Eg hefi þekt gestinn okkar allan þann tíma æfinnar, er við höfum verið vinnandi menn, og frá því að hann fyrst gerðist málfærslumaður, höfum við ávalt sagt, að einhvern góðan veðurdag myndi Asquith verða forsætisráðherra".

Árið 1886 var Asquith korinn til að sitja á þingi Breta fyrir *East Fife* og því sæti hélt hann við kosningar, er síðar fóru fram. Gladstone gamli veitti honum þegar eftirtekt fyrir ræðusnild hans og fyrir þá miklu vitsmuni, er hann sýndi í stjórnmálum. Árið 1892, þótt enn væri hann fremur ókunnur almenningi, var hann til þess fenginn að bera fram vantraustsyfirlýsingu til *Salisbury*-stjórnarinnar. Og í hinu nýja frjálslynda ráðaneyti, sem þá var myndað, varð hann ráðgjafi innanríkismálanna. Þar sýndi hann þegar stjórnmála-hæfileika með afbrigðum. Hann varð til þess fyrstur manna að skipa konur til umsjónar á verksmiðjum. Hann sýndi verkalýðnum þá tilhliðrunarsemi, að veita þeim leyfi til að nota *Trafalgar Square* fyrir múgmennis samkomur sínar, er áður hafði þótt óhæfa. En strangur þótti hann við lögbrotsmenn og afglapa. Snemma hrutu honum þau orð af munni, er síðan urðu fræg og lifað hafa fram á þenna dag, að stjórnin væri að reyna *að plœgja sandinn*, þegar hún léti sér til hugar koma að koma fram frjálslyndri löggjöf, þó lávarðamálstofan væri henni fjandsamleg. Það var í Birmingham 1894. Embætti sínu hélt hann þetta skifti í þrjú ár og

frammistaða hans þar hafði staðfest það mikla álit, er hann þegar hafði unnið sér.

Frjálslyndi flokkurinn tapaði við kosningar 1895 og í ellefu ár var Asquith embættislaus. Hann hafði kvænst árið 1877, en misti konu sína frá nokkurum börnum 1892. Tveim árum síðar gekk hann að eiga eina hina bezt kunnu Lundúna-konu, þeirra er þá ferðuðust á efstu tindum samkvæmislífsins, dóttur járnkonungsins auðuga, Sir Charles Tennant; einkum hafði hún kunn orðið fyrir að heyra til kvenlegum félagsskap, sem nefndist „*Sálirnar*"; því allir könnuðust við hana sem *Dodo* í skáldsögu *Bensons* með því heiti. Þegar Asquith vék úr embætti sem ráðherra innanríkismálanna, tók hann aftur upp málfærslu störfin, er hann áður hafði haft á hendi. Var misjafnlega um það dæmt, því það var móti venju og þótti mörgum niðurlæging. En sjálfur var Asquith fátækur maður og hirti ekki um. Hann varð nú að tvískifta sér, stunda lög öðrum þræði, en stjórnmál hinum. Hann fylgdi Rosebery lávarði að málum og gerðist fylgismaður heimastjórnar Íra. Hann gerði sitt til að halda frjáls lyndaflokknum við stefnu sína, að því er snerti frjálsa verzlan. Þegar er Chamberlain ætlaði að snúa þjóðinni til tollverndunar á árunum 1903—1906, gerðist Asquith aðal-flutningsmaður frjálslyndu stefnunnar og varð hann Chamberlain sá þrándur í götu, sem dugði. Skoðanir hans um fjármál, eftir ófriðinn við Búa, þóttu svo heilbrigðar, að þegar er Champbell-Bannerman tók við sem forsætisráðgjafi, varð Asquith fjármálaráðgjafi.

Á meðan hann var fyrir framan, reis Asquith hærra og hærra í áliti, og þar sem Campbell-Bannerman var orðinn gamall og þjáður af vanheilsu, lenti flokksforustan að mestu leyti á fjármálaráðgjafanum. Í fyrstu leit flokkurinn Asquith fremur köldum augum og margir örðugleikar voru á leiðinni. En svo

vel tókst Asquith að vinna bug á þeim öllum, að þegar til kom að fá nýjan leiðtoga, var hann álitinn sjálfsagður. Eitt hið fyrsta afrek hans var nýmælið um gamalmenna-styrk af hálfu hins opinbera, sem hann bar fram á þingi 1908. Það varð kunnugt 5. apríl, að Champbell-Bannerman hafði sagt af sér og að konungur hafði kallað Asquith fyrir sig. Var konungur þá staddur við böðin í *Biarritz* á Suður-Frakklandi. Þangað varð Asquith að fara gegn öllum siðvenjum Englendinga í þeim efnum og 8. apríl sagði hann fjármálaráðgjafa-tigninni upp og kysti hendur konungs sem forsætisráðherra. 13. apríl voru nöfn þeirra manna auglýst, er hann hafði kvatt til ráðaneytis. Hefir það síðan þótt skipað þeim fyrirtaksmönnum, að sjaldan hefir nokkur þjóð verið svo heppin að eiga jafn-mikilhæfa menn og göfuga til að fá mál sín í hendur. Við kosningarnar 1910 urðu aðal-flokkarnir ensku jafnliðmargir á þingi og Asquith í all-miklum vanda. En með lagi fekk hann hina smærri þingflokka til að ganga í lið með sér, til að brjóta vald lávarða-málstofunnar, og sat sem fastast.

Um Asquith er það almanna rómur, að hann eigi yfir einni þeirri gáfu að ræða, er dásamlegust þykir, og muni hann hafa eignast hana við flutning mála fyrir dómstólunum. Þau mál sem öðrum finnast lítið um vert, hefir hann lag á að gera að stórmálum, hin stærstu nýmæli getur hann talað um sem hversdagsmál, og í hans höndum verður það sem aðrir skoða mestu vafamál að því sem sjálfsagt sé fyrir alla að fallast á. Þó hefir Asquith ávalt kunnað að gæta þingreglunnar manna bezt. Hann hefir haft lag á að láta þingið gleyma lögmanninum, en sjá stjórnmálamanninn í öllu. Þegar Gladstone hafði hlýtt á fyrstu þingræðu hans, sagði hann: ,,Ræðan sem vér erum rétt búnir að hlýða, eftir heiðraðan þingmann frá East Fife, mun hafa sannfært alla um, að þinginu

hafa bæzt dýrmætir kraftar í ágreiningsumræðunum, og hún er spádómur um þann dag, þegar sá virðulegi herra stendur framarlega í ráðum þjóðanna". Hafi eitthvert vandamál verið á ferðum og eitthvert óhapp komið fyrir, sem haft getur slæm áhrif fyrir flokkinn, tekur Asquith venjulega alla ábyrgð upp á sig, og svæfir með því eggjar óvinanna, og það þó sökin hafi alls ekki verið hans. Eitt sinn er hann var innanríkisráðherra, hafði verið skotið á múg við verkmannauppþot. Út af þessu varð mikil vonzka í þinginu, en Asquith sagði það sér að kenna, í stað þess að velta sökinni á aðra. Fyrir tveim árum voru skjöl sem heyrðu til látnum undirforingja prentuð. Af þeim sannaðist það og varð alkunna, að svo langt hafði verið frá því, að þessi óhappa skot hefði verið Asquith að kenna, að hann hafði varað mjög eindregið við að láta slíkt koma fyrir.

Eins og tekið hefir verið fram, tók Asquith aftur til starfa sem málaflutningsmaður sama daginn og hann afhenti konungi embættis-innsigli sitt, eftir þriggja ára þjónustu sem ráðgjafi innarríkismála. Enginn ráðgjafi hafði gjört þetta, og þótti óhæfa mikil, einkum þar sem innanríkismála-ráðgjafi átti í hlut, því stundum ber það við, að hann verður að gefa úrskurði, er ónýta úrskurði dómaranna, þegar málum er skotið fyrir konung. Þetta var gert að umtalsefni á þingi. En með fáeinum einföldum setningum skýrði Asquith, að á annan veg gæti hann ekki séð fyrir fjölskyldu sinni, og eins og ástatt væri, gæti hann alls ekki séð, að það væri virðingu sinni ósamboðið, eða því embætti, sem hann hefði haft með höndum. Hann lét það þessu máli ekkert skifta, þó hann hefði fyrir ári fengið eina auðugustu giftingu, sem unt var að fá; það voru ekki efni, sem gáfu honum rétt til að leggjast í iðjuleysi.

Þegar er hann tók við forustu frjálslynda flokks-

ins árið 1908, var flokkurinn að gefast upp í viðureigninni við lávarðana. Þeir stóðu þarna eins og þykkur járnveggur, sem eigi var unt að koma nokkurri frjálslyndri löggjög í gegn um, hve mikið fylgi, sem hún hafði haft í neðri málstofu. Á fyrsta ári lagði Asquith út í bardagann og sannfærði þjóðina um, að minsta kosti í fjármálum gæti efri málstofan alls ekki haft synjunarvald. Og í öðrum málum gæti hún að eins haft frestunarvald. Í þeim bardaga vann Asquith ágætan sigur, sem hóf hann upp úr flokksforingja-tign og gerði hann að öndvegishöldi í framfaramálum allrar þjóðarinnar. Í afskiftum sínum af Ulster málinu og uppreist þeirri, er Sir Edward Carson hefir þar verið foringi fyrir, hefir hann sýnt svo mikla festu, en um leið hófgirni svo mikla, að veitt hefir verið eftirtekt um allan heim. Hann er óefað einn hinn lundfastasti stjórnmálamaður, sem England hefir nokkuru sinni átt. Ræður hans á þingi síðast liðið sumar, er hann talaði um hinar „óskammfeilnu málaleitanir" Þjóðverja, áður en ófriðurinn brauzt út, komu því til leiðar, ekki síður en ræður Edward Grey, að brezka þjóðin stóð upp eins og einn maður og sagði: Þetta stríð heyjum við til enda, hvað sem kostar.

Ræður Asquith eru fyrirmynd að skírleik, orðfæð, orðavali og tilfinningu, þó honum sé oft brugðið um kulda, af því hann er svo einbeittur. Um fram flesta menn aðra virðist hann þeirri gáfu gæddur, að láta sér fyrirhafnarlaust hugkvæmast hvert skifti heppilegustu orðin, sem á þarf að halda. Hann hefir lag á að þrýsta efninu saman, svo hann talar aldrei lengi í einu, en skilur þó ekkert eftir, sem þarf að segja. Röddin er hreimmikil og hrífandi, svo áhrifin á þingið í hvert skifti eru feikna-mikil. Aldrei kemur það betur í ljós, hve vel hann kann að stilla orðum sínum en þegar hann er að tala um einhvern at-

kvæðamann látinn. Í sumar sem leið dó einn af vinum hans, en andstæðingur þó í þinginu, og var það lofsorð sem hann lauk á hann ef til vill þeim mun eftirtektarverðara, þar sem hér var um andstæðing að ræða í stjórnmálum, og munu ummæli hans lengi lifa: „Ef til vill hefir Alfred Lyttleton komist allra manna þessarrar kynslóðar næst því, að eignast það mannsmót og þá kjörmynd af sönnum manni, er hverjum enskum föður myndi fögnuður í að sjá son sinn keppa eftir, og ef unt væri að ná". Sú setning mun lengi í minnum höfð.

Hann hefir afnumið þann sið, að viðhafnarræður leiðtoganna í þingi, sem þeir flytja kjólklæddir, þurfi að vera tveggja til þriggja klukkustunda langar. Það er mjög sjaldan, að hann þurfi meira en fjörutíu til fimmtíu mínútur, jafnvel þegar mest liggur við, og þegar er hann tekur sæti sitt aftur, virðist ekki vera eitt einasta atriði eftir, sem taka hefði átt betur fram. Hann er sérlega vinsæll leiðtogi, því prúðmenskan og kurteisin yfirgefa hann aldrei. Hann hefir engar mætur á þynningum. Stundum eru þeir á þingi að leggja fyrir hann spurningar, sem þeir eru lengi að koma út úr sér. Svör hans eru þá vanalega að eins: *No, Sir*, og þó þeim þyki það oft nokkuð snubbótt, finst flestum, að þau sýna heimsku og fordild nægilega samúð.

*F. J. Bergmann.*

---

# Umsátrið um Parísarborg 1870.

*Hverjar afleiðingar stríðið hafði fyrir mig*

Sögusögn *frakkneskrar konu,* AIMÉE GEORGES.

(Skrifað um miðjan ágúst 1914).

---

Eg hefi lesið í blöðunum að sama daginn og herliðið hélt burt frá Berlín, hafi farið fram tvö þúsund hjónavígslur. Var frá því sagt sem lítilfjörlegu atriði, og það hulið inni á milli þéttsettra blaðadálka sem fullir voru stríðsfregnum. En eigi að síður fylti það huga minn endurminningum, sem eg hafði verið að reyna að gleyma seinustu fjörutíu árin. Því fyrir fjörutíu og fjórum árum sá eg hersveitir halda á burt, ekki frá Berlín heldur París. Á þeim sama degi fóru einnig fram margar hjónavígslur og einn hermannanna var maðurinn minn, og ein hjónavigslan var mín.

Áður en þessi frásögn kemst á prent mun eg hafa lesið um stór skip, sem sökt hefir verið, eyddar borgir og hrausta menn, sem hafa fallið eins og strá fyrir ljá.

Mér er í minni þegar Prússar héldu inn í Parísarborg eftir hina löngu og hræðilegu umsát. Þóttust þeir hafa rétt til þess að dvelja næturlangt fyrir innan borgarhliðin, og var þá ekki annað fyrir hendi en að samsinna að svo væri. Skotvirkin rifu þeir niður, en ýmist drápu eða tóku til fanga ungmenni vor svo ekki var oss skilið annað eftir í allri hinni ágætu Parísarborg en gamalmenni, konur og börn. Þeir kröfðust þess líka að þeim yrði hleypt inn í húsin; en að

við þeim yrði tekið með glaum og gleði, þess gátu þeir ekkt krafist, né heldur neytt oss til. Hvar sem litið var, voru gluggahlerar lokaðir, og göturnar mannlausar. Alstaðar blakti þjóðfáninn franski á öfugum endum og jafnhliða honum, hingað og þangað, sorgarblæjur. Yfir dyrum matsöluhúsa og leikhúsa hengu sorgarfánar og skyldir, sem snúið hafði verið öfugt en, sem letrað var á: ,,Lokað vegna sorgar þjóðarinnar". Borgin var sem dauð. En gægðist maður út um gluggahlerana sáust Prússar vera að færast nær.

Eg var nítjan ára gömul. Faðir minn og móðir voru ellihnígin. Eg minnist þess er eg stóð við hlið foreldra minna, að við öll gægðumst út og sáum herfylkingarnar síga áfram og að faðir minn fordæmdi þær ákaflega í lágum hljóðum. Sjálf bar eg í brjósti til þeirra rótgróið hatur. Þeir voru svo sællegir og svo hraustir að sjá, — en oss höfðu þeir svelt í meir en hundrað daga. Alt í einu, meðan við stóðum þarna á gægjum, sáum við konu skjótast út úr kjallaradyrum hér um bil beint undir glugganum okkar, staðnæmast yzt á gangstéttinni og veifa höndunum hrópandi. Hún var grá fyrir hærum, á að gizka fimtug, en allt hennar yfirbragð virtist fyrirmannlegt.

,,Nemið staðar", hrópaði hún. ,,Morðingjar, úrþvættin ykkar, nemið staðar".

Nokkrir dátanna sem næstir stóðu hniptu hver í annan og hlóu, en hinir héldu áfram leiðar sinnar án þess að gefa henni eða hrópum hennar gaum. Alt í einu lét hún hendina síga niður að beltisstað og hóf hana svo strax aftur. Eg hrökk aftur á bak með skelfingu. Hún hélt á skammbyssu. Þrjú skot riðu hvert á eftir öðru, og þrír prússar, sem næstir henni stóðu, hnigu niður á götuna, blóðugir. Ruddust nú margir að henni til að taka af henni vopnið. Einn þeirra barði hana með afli í andlitfð, en þess virtist engin þörf því hún rétti fram byssuna stillilega.

„Takið við byssunni“, hrópaði hún. „Hún hefir unnið sitt verk. Þið sviftuð mig manninum mínum og tveim sonum. Eg tek þrjá ykkar. Ha!“ — Það var skelfilegur hæðnishlátur. „Þið megið hafa byssuna. Gefið hana þessum þremur, sem liggja þarna á götunni. Kannske hún færi þá aftur til lífs“.

Þeir tóku konuna með sér og flýttu förinni til varðhússins. Kváðu þeir hana vitstola, og sá eg hana aldrei síðar. Hundruðir kvenna urðu vitstola um þetta leyti, og það er umhugsunin um þær, sem kemur mér til að segja að sorgirnar, sem konur verða að þola á ófriðartímum, séu of harmþrungnar til þess þeim verði með orðum lýst. Og það er af því, að menn lesa ekkert um það hvað stríð þýðir í garð kvenna. Við vitum hvað það þýðir, við mundum láta það uppskátt ef við gætum, því ef hægt væri að segja söguna eins og hún er í sínum óttalega algleymingi, ef allar konur vissu það, sem sumar okkar vita, þá mundi aldrei verða stríð framar.

Eg man það að eg var átján ára gömul þegar stríðið hófst. Faðir minn fékst við ullarverzlun og bjuggum við rétt utan við borgina í gömlu en þægilegu húsi, og var blómgarður í kringum það.

Við kærðum okkur sízt um stríð. Napóleon hafði fært Frakklandi stríð sem nægja hefði mátt um langan aldur — of mikið stríð. Prússar höfðu um mörg undanfarin ár búið sig undir ófrið, og þegar stríðsyfirlýsingin kom, lá ekki annað fyrir frönsku þjóðinni en að verja hendur sínar. Keisarinn bar nafn Napóleons. Þjóðin treysti honum. Hún var þá ekki komin að raun um hve mannkostir hans voru ónógir, en hann aftur á móti treysti þeim mönnum, sem hann hafði hið næsta sér, lét þá telja sér trú um að herliðið væri fullkomið að öllum útbúnaði og að styrjöldin mundi hjálíða á örfáum dögum. Allir trúðu þeim og honum. „Þetta verður eins og dálítil skemtiferð“,

sögðu ungu mennirnir sín á milli, og virtist eins og öll þjóðin tæki meiri og minni þátt í ungæðisskap þeirra. Þó voru innan um gamlir menn, sem rendu huganum aftur til áranna þegar Napóleon herti sem mest að þjóðinni með liðsöfnun, og mintust þeirra hörðu tima með eftirvæntingu.

Ungmennin þyrptust undir merki, og virtist hátíðabragur á öllu dagana áður en herliðið hélt burtu úr Parísarborg.

,,Til Berlínar, til Berlinar!" hrópaði fólkið og virtist ganga að því vissu að innan viku eða hálfsmánaðar mundi sú fregn berast út að herlið vort hefði rutt sér braut að höfuðborg Prússlands og náð þar inngöngu.

Francois og eg vorum búin að vera trúlofuð í þrjá mánuði og var ráð fyrir gert að við giftumst um jólaleytið. Sextugasta og önnur hersveitin — hersveitin, sem hann var í, var kölluð undir merki. Kom hann stöðugt til mín kvöldin næstu áður en liðið hélt á stað og sagði mér þá ætíð í fréttaskyni hvað gengi með liðsöfnuðinn, þangað til seinasta kvöldið. Þá voru frettirnar færri, og var einhver alvörublær á röddinni sem endranær átti þar ekki heima. Sagði hann mér að orð léki á því í herbúðunum að prússar væru betur búnir að mönnum en gert hefði verið ráð fyrir. Fór annars ekki út í smáatriði, en það var auðvelt að geta sér til í eyðurnar, því blærinn á röddinni, trega-yfirbragðið á allri framkomu hans, einhver hulin tilfinning talaði til min, og loks gat eg ekki lengur orða bundist.

,,Hugsaðu þér", sagði eg, ,,hugsaðu þér það Francois ef þú skildir ekki koma aftur!" Hann þagði. Eg leit í augu honum msð skelfingu.

,,Francois!" nærri hrópaði eg, ,,því svararðu mér ekki Francois?"

Í stað þess að svara tók hann í hönd mér. ,,Eg

hefi verið að hugsa um það Aimée", sagði hann, ,,að ef til vill væri bezt að við giftum okkur á morgun".

Eg greip með ákafa í hönd honum.

,,Maður veit sjaldnast hvað fyrir getur komið þegar út í stríð er gengið, og — eða hvað finst þér?" spurði hann og leit á mig.

Stundarkorn leið áður en eg svaraði, en á þeirri litlu stund virtist sem eg hyrfi frá æsku- til fullorðinsáranna. Það var eins og eg gengi þá alt í einu í gegnum allar þær raunir sem eru hlutskifti konunnar einnar. Þá vissi eg það vel að hvað sem yrði á vegi Francois, hvort heldur líf, hvalir, eða dauði, þá átti eg þar hlut að máli. Þá líka, meir en nokkru sinni áður lék mér hugur á að verða eiginkona hans.

,,Við skulum fara til pabba og mömmu", sagði eg látleysislega, Fleiri orða þurfti ekki við, því við skildum hvort annað. Við gengum hljóðlega út á svalirnar á bakhlið hússins þar sem foreldrar mínir sátu og sagði Francois þeim frá samtali okkar. Daginn áður hafði Francois ekki verið nema drengur í augum mínum, en í kvöld var hann orðinn fullorðinn maður. Það var eins og slæi glampa á augu föður mínum, því hann var stoltur af Francois.

,,Börnin hafa rétt fyrir sér, góði minn", sagði móðir mín. ,,Við skulum fara með þeim á morgun".

Francois kom snemma morgunin eftir og móðir hans með honum og héldum við öll saman til kirkjunnar því þar var alt undir vígsluna búið. Eg reyndi að festa hugann við athöfnina, en gat það ekki. Hann snerist allur um það eitt að nú væri Francois að fara í stríðið.

,,Þar til dauðinn einn fær ykkur aðskilið?" endaði presturinn ræðu sína hátíðlega og beið eftir jáyrði mínu, sem eg gaf með veikum rómi.

Herinn átti að leggja á stað seinni part dagsins, og stóð eg út á gangstéttinni til að horfa á fylkingarn-

ar líða fram hjá. Hvar, sem litið var, blöktu, þjóðfánarnir. Fólkið stóð í þyrpingum og æpti gleðiópum um leið og hersveitirnar fóru hjá, eins og ef hátíðahald væri, en þó linti gleðilátunum von bráðar og alvörublær eins og smá færðist yfir fjöldann. Nú sáust atburðir, sem eg sízt vildi sjá aftur.

Meðfram götunni eins langt og séð varð, stóðu konur og gamalmenni grátandi og veifuðu vasaklútum í kveðjuskyni, eða lyftu óttaslegnum ungbörnum upp yfir mannþröngina svo þau kæmu auga á föður sinn um leið og hann færi fram hjá. Eg sá allt í móðu, og horfði á síðustu fylkinguna — þar var Francois í fremstu röð með byssu á öxl.

Eg grét ekki þá. Tárin komu ekki fyr en seinna, því eg vildi ekki þyngja sorg hans með þeim, og með þeim ásetningi, og án þess að gefa gaum því sem aðrir sögðu eða hugsuðu, fór eg þangað sem hann var, harkaði af mér og gekk við hlið hans að borgarhliðunum. Þar kysti hann mig skilnaðarkossi en eg hélt heimleiðis aftur þungum, erfiðum skrefum.

Margir, sem betra skyn hafa borið á en eg, hafa skrifað um umsátina um Parísarborg. Í fyrstu var það ekki á almanna vitund að sezt mundi verða um borgina, né heldur hefðu menn trúað því, þar eð allar fréttir, sem stjórnin lét gefa út þangað til undir það síðasta, voru góðar og hughreystandi. Eftir þeim að dæma átti herlið vort að hafa mætt óvinahernum, felt marga menn, og borið sigur úr bítum. Einnig að riððaralið vort hefði afkróað eina af herdeildum Prússa og tekið að herfangi margar fallbyssur, en að her vor yfirleytt væri á leiðinni til Berlínar sigri hrósandi. Svona fregnir ráku hver aðra og trúðu menn þeim fyrst í stað, en svo fóru að kvisast nýungar manna á milli, sem ekki komu á prent. Það, að lið vort hefði sigrað, var borið til baka, en hitt haft að sönnu að það hefði hörfað undan, að margir hefðu

fallið, margir særst, margir teknir til fanga, — og að síðustu fregnin um það, að umsát yrði hafin um sjálfa Parísarborg. Jafnvel þá álitu menn ekkert verulegt í húfi. Eg man að faðir minn kom heim með fjögur væn svínslæri og skar af einu þeirra stóra sneið handa hverju okkar. Varð þá móður minni að orði eitthvað á þá leið að betra mundi að geyma lærin ef svo skyldi fara að sezt yrði um borgina. En faðir minn eyddi því og hló. ,,Já umsát", sagði hann. ,,Hvað um það, hún mundi aldrei standa lengi".

Að nokkrum dögum liðnum var komið annað hljóð í strokkinn. Prússar voru farnir að kreppa að borginni. Göturnar fyltust fólki á flótta með pjönkur sínar í höndunum, og liti maður í kíki af einhverri hæð í borginni, sást óvinaherinn í óða önn vera að byggja varnargarða og þá í fyrsta skipti á æfinni heyrði eg fallbyssuskotin dynja svo *u*ndir tók og allt hristist, en þó gleymdist manni eigi að síður sá feiki: gnýr svo, með vananum, að hans gætti ekki frekar en ganghljóðs í klukku.

Í fjóra mánuði bragðaði eg ekki brauðbita. Við áttum lítið eitt af kartöflum, sem gengu upp löngu áður umsátinni var lokið. Stjórnin gerði upptæka alla hesta í borginni og fílana í dýragarðinum og útbýtti manna á meðal miðum sem ákveðið var á hve mikið hrossa og fílakjöt skyldi af hendi látið hverjum fjórða hvern dag.

Einu sinni um dagsetursbil var eg ein á gangi heimleiðis. Á undan mér gengu tveir aldraðir menn, auðsjáanlega komnir yfir herskyldu aldur. Sá eg að þeir námu staðar alt í einu framundan húsi föður míns og að annar þeirra beygði sig áfergilega eftir einhverju, sem hann svo flýtti sér að stinga niður í poka um leið og hann sagði drýgindalega við félaga sinn: ,,Þetta skal nú í pottinn á morgun". Seinna komst eg að því hvað þetta hafði verið. Það var kötturinn okkar.

Næst herbergjum okkar bjó kona sem átti tvo sonu i stríðinu og voru þeir líka í sextugustu og annari herdeildinni. Hún var eldri en eg — jafn gömul móður minni — en upp frá deginum þegar fyrstu harmafregnirnar bárust til Parísar og þangað til umsátinni létti, vorum við óaðskiljanlegar. Við höfðum báðar orðið að offra ástvinum, sem okkur voru kærari en alt annað, og hjörtu okkar bærðust eingöngu fyrir þá.

Frá því fyrsta heyrði eg hana ganga fram og aftur í herbergi sínu langt fram á nótt, viðstöðu og hvíldarlaust. Síðar, þegar fregnirnar fóru versnandi eða þegar að því kom, sem verst var af öllu, að þær komu engar, fór eg líka að ganga um gólf.

Klukkan sex á morgnana þegar skothríðin vakti okkur, var það vanalega að við klæddumst í snatri, fengum okkur matarbita, og héldum á stað. En ætíð var vinkona mín, móðir drengjanna tveggja tilbúin á undan mér og beið með óþreyju meðan eg var að enda við að týgja mig til.

Gengum við þá stundum mílu eða tvær mílur vegar eftir því hvaðan skothríðin heyrðist, komum þangað lafmóðar með öndina í hálsinum og spurðum varðmennina hver hersveitin berðist þar. Voru þeir ætíð reiðubúnir til svars og ef þá, sem oft var, að sextugasta og önnur hersveitin hélt kyrru fyrir, flýttum við okkur til einhvers annars staðar í borgina þaðan sem skot heyrðust, og síðan stað úr stað frá einum enda borgarinnar til annars, allan daginn og komum heim um náttmál uppgefnar, en léttari í bragði ef sextugasta og önnur hersveitin hafði ekki verið í skothríðinui þann dag.

Suma dagana var ekkert barist og sátum við þá heima og bjuggum út sáraumbúðir. Rifum sundur beztu lérepts- og borðdúkana sem við áttum og var ljúft að gefa hvorttveggja.

En vanalega fóru allir dagar í það að ráfa fram og aftur milli virkjanna í skjóli við varnargarðana.

,,Þarna berst sextugasta og önnur hersveitin", kallaði stundum einhver varðmannanna og biðum við þá átekta langa og kvalafulla bið.

Væri farið framhjá með særðan mann, flýttum við förinni þangað sem mest við máttum og grátbændum um að fá að sjá framan í hann

,,Það er ekki Francois",

,,Það er hvorugur sona minna".

,,Guði sé lof".

Svo tímunum skifti ýmist biðum við og þutum svo af stað ef sjúkrabörur voru bornar fram hjá, eða fylgdum spítalavögnunum þangað sem þeir fóru, skelfdar af því sem fyrir augun bar þegar hinir særðu voru bornir út, en gátum samt ekki bundist þess að horfa.

Loksins rann upp sá dagur að skothríðinni létti og þær nýungar bárust út að stríðinu væri lokið. Eg man hvað við grétum. Eða þegar fyrsti maðurinn kom inn í borgina að utan eftir að umsátinni var hætt. Hann hélt á stóru hveitibrauði og þyrftist fólkið utan um hann kjamsandi, með hávaða og gleðilátum.

Francois kom aftur. Hann var orðinn ellilegur á svipinn og voru dökkar rákir undir augunum á honum, og virtist hann ganga lotinn rétt eins og þyngd byssunnar hefði sligað hann. En sama hýrleiks yfirbragðið var á andliti hans og glampinn í augunum hinn sami. Eg fleygði mér um hálsinn á honum og það var eins og tárin ætluðu aldrei að hætta að streyma . . . .

,,Blóðugur bardagi", sögðu blöðin. ,,Tuttugu og fimm þúsund manna drepnir, særðir og týndir". En engin blöð gátu þeirra tuttugu og fimm þúsunda kvenna, sem heima fyrir hlutu að sitja sorgmæddar, þjakaðar og særðar, ekki af kúlum heldur helfregnum. Fyrir þeim öllum gékk gleðisólin til viðar.

Á ófriðartímunum núna, hugsa eg alla daga og margar nætur, um allar þær þúsundir mæðra sem verða að berjast gegn um lífið sorgmæddar með föðurlaus börnin á örmum sér, um systurnar sem missa bræður sína og standa einar eftir, um konur svo þúsundum skiftir sumar hverra nýgiftar, en sumar giftar sama daginn og herliðið hélt á braut, eins og eg.

*M. Matthíasson, þýddi.*

---



# SAFN

TIL

# Landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi.

---

## *SAGA ÍSLENDINGA Í UTAH*

*Eftir E. H. Johnson.*

---

### FORMÁLI.

Fyrir vinsamleg tilmæli hins heiðraða útgefanda þessa almanaks, hefi eg ráðist í að færa í letur nokkra söguþætti, um Íslendinga þá sem flutt hafa frá ættjörðu vorri, Íslandi, og sezt að hér í Utah. Verð eg þó að játa, að það eru ýmsar bægðir á því fyrir mér, að geta gert það svo úr garði, sem slíkri sögu hæfir. Veldur því, meðal annars það, hversu langt er umliðið síðan Íslendingar flnttu hingað, og annað það, að flestir af þeim fyrstu hafa nú safnast til feðra sinna. Svo er það og líka eitt, að þeir sem hingað hafa flutt, og hér eru nú, eru næstum allir ættaðir úr öðrum landsfjórðungi en eg er. Eg hef því orðið að byggja sögu mína fyrir það mesta, á sögusögnum annara, en það er stundum ekki eins áreiðanlegt, eins og það sem maður sér og þekkir sjálf-ur. Ekki svo að skilja samt, að eg vilji drótta ósannsögli að

nokkrum manni, í þessu efni, heldur hitt, að menn eru gleymnir, og misminnir þarafleiðandi oft, um ýms atriði svo sem um ártöl, dagsetningar, ættartölur o. s. frv.

Eg vil því biðja lesendur og hlutaðeigendur, velvirðingar á öllum þeim göllum, sem á þáttum þessum kunna að verða. Eg tók hér að mér, að rita það, sem mér, sökum framantaldra orsaka, var ofvaxið, aðallega til þess að Íslendingar í þessu bygðarlagi, gætu verið með, þegar safnið til landnámssögunnar íslenzku í Vesturheimi verður prentað í einni heild, sem væntanlega verður gert, þegar öll undirstöðuatriði eru fengin.

Um niðurröðun á þáttum þessum, hef eg það að segja, að menn eru taldir hér, í þeirri röð, eftir ártali, sem þeir komu hingað til aðseturs. Og aðrir eru hér ekki taldir en þeir sem fæddir eru á Íslandi. Afkomenda þeirra er ekki getið, utan þar sem sérstök nauðsyn krafði, og betur þótti við eiga.

Yðar einlægur—E. H. J.

---

## I. ÞÁTTUR.

Landnámssögur byrja oftast á því, að sá, er ritar, lýsir fyrst landsháttum, þar sem sagan gerist; einkum er það nauðsynlegt, þar sem ræða er um landnám í óbygðum, þar sem engir hafa tekið sér bólfestu áður en sagan hefst. Saga sú, eða söguþættir, sem hér fara á eftir, verða að því leyti svo lítil undantekning, því það er ekki hægt að segja, að Utah væri alveg óbygt land, þegar hinir fyrstu Íslendingar komu þangað. Utah var að vísu fyrir stuttu bygð, það er að segja af hvítum mönnum, því það var árið 1847, sem fyrsti hópur hvítra manna, undir forustu Brigham Youngs, kom þangað til aðseturs. Áður var Utah bygt af Indíönum, og töldu þeir landið sína eign, og ömuðust þeir við bygð hinna hvítu manna (*pale faces*—sem þeir svo kölluðu), og voru, alt fram að 1860, mjög herskáir í garð þeirra. En þar sem nú eru liðin yfir 60 ár, síðan Utah bygðist fyrst, og hún því orðin kunn á meðal allra þjóða, og þá um leið þeirra, sem lesa þetta Almanak, sleppi eg að lýsa henni hér í þessum þáttum, í þeirri von, að engir álíti það mikinn galla. Saga Íslendinga hér byrjar samt á ungdómsárum Utah-ríkis, og er

því ýmsra orsaka vegna ofin inn í sögu ríkisins, en sérstaklega þó fyrir þátttöku þeirra í stríðum við Indíana og þess, að þeir tóku þátt í að yrkja og byggja upp fagurt og frjósamt land úr eyðimörk.

Það verður því upphaf sögu vorrar hér, að í kring um árið 1850 voru tveir Íslendingar í Kaupmannahöfn að læra handiðn. Hétu þeir Þórarinn Hafliðason og Guðmundur Guðmundsson. Áttu þeir báðir heima í Vestmannaeyjum og hafa að öllum líkindum verið ættaðir þaðan, eða úr Landeyjunum. Hvort réttara er, veit eg ekki, en hitt er áreiðanlegt, að þeir voru í Höfn á þessu tímabili og tóku þar trú þá, sem nefnd er "Mormónska", og Utah er nú á dögum nafnkendust fyrir. Ekki veit eg heldur, hvað lengi menn þessir dvöldu í Höfn; en Magnús Bjarnason (sem síðar er getið), getur þeirra í æfisögu sinni og segir, að það hafi verið um þær mundir, og að Þórarinn hafi verið sá fyrsti Íslendingur, sem tók trú Mormóna, og því réttnefndur faðir að þeim trúarbrögðum meðal Íslendinga. Þetta skeði, segir Magnús, árið 1851.— Guðmundur Guðmundsson gullsmiður, og félagi Þórarins, sem síðar flutti til Utah, var sá næsti, og fóru þeir svo að því búnu heim til ættstöðva sinna og tóku að boða hina nýju trú vinum sínum og ættfólki þar á eyjunum, sem í fyrstu gekk fremur tregt, en rættist þó dável fram úr með tíð og tíma og varð aðallega til þess, að landar byrjuðu að flytja til Utah.

Tvær eða þrjár fjölskyldur þar á eyjunum gengu strax inn á trú þessa, og úr þeim hópi var sá maðurinn, sem fyrstur Íslendinga flutti til Utah.

Þórarinn, sem áður er nefndur, druknaði við Vestmannaeyjar 1852, og er því úr sögunni. En Guðmundur félagi hans hélt áfram trúboðinu í samfélagi við danskan mann, sem kom til eyjanna um þessar mundir og dvaldi þar fyrir tíð.

Það var árið 1855, sem fyrstu Íslendingarnir hófu ferð til Utah. Sá, sem fyrir ferðinni réð, hét Samúel og átti síðast heima á Kirkjubæ í Vestmannaeyjum. Faðir hans var Bjarni Jónsson, fyrir eina tíð bóndi á Kvíhólum undir Eyjafjöllum. En kona Samúels heitir Margrét Gísladóttir bónda

á Görðum í Vestmannaeyjum, Andréssonar á Grænuborg í Fljótshlíð. — Samúel, Margrét kona hans og annar kvenmaður, Helga að nafni, sem síðar varð kona Þórðar Diðrikssonar, voru fyrstu Íslendingarnir, sem til Utah komu; það var um vorið 1856. Þau Samúel og Margrét tóku sér bú-



*Samúel Bjarnason og kona hans Margrét Gísladóttir*

stað í Spanish Fork, en Helga varð eftir í Salt Lake City. Samúel nam hér land, 160 ekrur, eða jafnvel meira, og bjó hér síðan fremur laglegu búi í 34 ár. Hann andaðist 1890; en ekkja hans lifir enn, og er nú 88 ára að aldri.

Þetta sama ár, eða 1856, kom *Þórður Diðriksson* út, og settist að í Spanish Fork. Var Þórður bróðir Árna í

Stakkagerði í Vestmannaeyjum, sem margir kannast við, en sonur Diðriks bónda á Hólminum í Austur Landeyjunum, Jónssonar frá Önundarstöðum, Diðrikssonar í Miðey, Bjarnasonar á Önundarstöðum, Gíslasonar á Skúmsstöðum, Bárðarsonar lögmanns í Vatnsdal, Diðrikssonar, Þorsteins-



*Þórður Diðriksson og kona hans Helga Jónsdóttir*

sonar, Jónssonar prests, sem myrtur var af Tyrkjum í Vestmannaeyjum 1627, Eiríkssonar kirkjuprests í Skálholti 1520, svo á Gilsbakka 1527 og síðast á Reykholti 1547-1563, Jónssonar*). — Kona Þórðar var Helga, sú sem getið er um hér

*) Ættartala Þórðar Diðrikssonar, eftir B. Guðmundsson á Suðurnesjum skrifuð 1876.—E.H.J.

að framan, dóttir Jóns Hálfdánarsonar bónda á Klasbarða í Út-Landeyjuunm í Rangárvallasýslu.— Þórður nam hér land og bjó hér góðu búi í nálægt 40 ár. Hann var greindarmaður og skáldmæltur í betra lagi, einnig góður smiður og yfirleitt í áliti og afhaldi á meðan hann lifði. — Hjón þessi eru nú bæði dáin fyrir nokkrum árum.

Þetta sama ár mun *Guðmundur* gullsmiður *Guðmundsson* hafa komið til Utah. Settist hann að í bæ þeim, sem Lehi heitir (framb. Líhæ) og bjó hann þar á meðan hann lifði. Hann átti danska konu, og við henni þrjá sonu, sem lítið og helzt ekkert hafa haft samneyti við Íslendinga.

Árið 1857 kom út hingað *Loftur Jónsson;* var Jón faðir hans Árnason, ættaður úr Landeyjunum. Loftur tók hér land og var talinn í beztu bænda röð meðan hann lifði. Hann átti fyrir fyrri konu Guðrúnu Halldórsdóttur, ekkju eftir Jón Oddsson bónda í Þórlaugargerði í Vestmanneyjum, sem druknaði þar við eyjarnar í kringum 1834. Guðrún var ættuð af Skeiðunum. — Síðari kona Lofts heitir Halldóra, dóttir Árna bónda að Undirhrauni í Meðallandi, Arngrímssonar á Hraunbæ í Álftaveri, Árnasonar hreppstjóra í Botnum í Meðallandi. — Loftur var hinn mesti heiðursmaður í hvívetna, og bezti smiður bæði á tré og járn. Hann dó af slysi hér í Spanish Fork 1874.

Sama árið kom hingað *Jón Jónsson, Oddssonar* frá Þorlaugargerði í Vestmannaeyjum. Var hann stjúpsonur Lofts og því í för með honum. Jón nam hér land og hefir búið hér síðan og farnast fremur vel. Hans kona, Anna Guðlaugsdóttir frá Ketilsstöðum í Mýrdal, Eyjólfssonar í Mörtungu, Þórarinssonar á Seljalandi, austur á Síðu. — Jón og Anna lifa enn, hann 77, en hún 75 ára að aldri.

Enn fremur var og í för með Lofti *Magnús Bjarnason;* fæddur 3. Ágúst 1815, en dáinn 1904, 89 ára að aldri. Var hann sonur prestsmága-Bjarna, sem svo var kallaður, fyrir þá sök, að hann átti börn með tveim prestadætrum á sínum yngri árum og áður hann giftist móður Magnúsar, sem, eftir því er næst verður komist af æfisögu hans, var hvorug prestsdóttirin. — Kona Magnúsar hét Þuríður, dóttir Magnúsar bónda á Brekku í Landeyjunum. Hún lézt 1. Febrúar

1891. — Magnús nam land, en búskapur hans var einlægt í fremur smáum stíl. Hann var hinn mesti ráðvendnis og heiðursmaður; Leykir allgóður og töluvert hneigður fyrir bækur. Fremur vel að sér um marga hluti, eftir því sem óbreyttir alþýðumenn gerast.

Einnig kom hingað með Lofti *Vigdís Björnsdóttir*, dóttir Bjarna bónda á Hjallanesi á Landi, Gíslasonar, ættuð úr Landeyjunum. Vigdís þessi kom samt ekki til Spanish Fork fyr en 1895. Hún giftist hér 1860 enskum manni, William Holt að nafni (frb. Hólt), og bjó svo með honum rausnarbúi um 30 ár. Hún hefir verið, og er enn, þegar þetta er ritað, við bú hér í bænum, þrátt fyrir það þótt hún sé nú 87 ára að aldri og hafi verið ekkja í 22 ár. — Get eg hennar hér í sögu landnema, fyrst fyrir þá sök, að hún kom hingað með þeim fyrstu, og annað það, að hún hefir verið hér á meðal vor nokkurs konar Unnur djúpauðga, eða Ólöf ríka; eða, svo eg tali nú blátt áfram, mesta rausnar og heiðurs kona. Hún fékst við ljósmóðurstörf hér í bænum og grendinni, svo mörgum tugum ára skifti, og hepnaðist það prýðilega. Hún iðkaði líka lækningar og líknaði mörgum, sérstaklega á meðan fólk í þessu bygðarlagi lifði við fátækt og læknar voru ekki á hverju strái, eins og þeir eru nú. Mrs. Holt er nú (1911) mikið farin að tapa bæði sjón og heyrn og því á fallanda fæti

Nú hefi eg talið alla þá, sem hingað komu fyrir 1860 og mega að réttu kallast landnámsmenn, og endar þar með fyrsti þáttur sögu vorrar.

## II. ÞÁTTUR.

Frá þeim tíma, sem hér að framan er skráð, en til þess að innflutningur byrjaði hingað aftur, liðu 14 til 15 ár, og hefi eg ekki heyrt getið neinna, sem hingað komu á þessu tímabili, utan einnar konu, sem Halldóra heitir. Hún er dóttir Samúels Bjarnasonar, þess sem fyrstur er talinn í fyrsta þætti. Kom hún hingað 1871 frá Kaupmannahöfn, og var þá gift dönskum manni, sem Friðrik G. Hansen heitir.

Búa hjón þessi hér í bænum enn, vel metin, en nokkuð hnigin að aldri.

Þeir af löndum vorum, sem seinna komu og verða nú taldir í þeirri röð, sem þeir komu, að svo miklu leyti, sem því verður við komið, höfðu lítið og helzt ekki neitt tækifæri til að nema lönd, því öll lönd hér í grendinni ,þau er nokkur veigur var í, voru upptekin. Samt hefir mikill meiri hluti keypt lönd, af ýmsum stærðum og með mismunandi verði, og rekið síðan landbúnað, sumir eingöngu en aðrir í sambandi við algenga daglaunavinnu. Land var hér fyrst framan af í þolanlega góðu verði, en nú er öldin önnur. Billegasta land er nú um 100 dollara ekran, og þaðan alt upp í $300 og jafnvel meira, þau lönd, sem eru undir aldinatrjám.

Það mun hafa verið í kring um árið 1872, sem þeir herrar, Samúel Bjarnason og Loftur Jónsson, fóru heim til Íslands í trúboðserindum fyrir kirkju Mormóna, og voru þeir í þeirri ferð nokkuð á annað ár og boðuðu trú um Vestmannaeyjar, Landeyjar og einnig í Reykjavík. Komst við þessa trúboðun að nýju á vesturfara-hreyfing á þessum stöðum, svo landar byrjuðu aftur að flytja til Utah, og hélzt það svo næstum uppihaldslaust þar til 1892 eða 3; — síðan hafa engir komið hingað frá Íslandi, mér vitanlega.

Árið 1874 kom hingað Sigurður Árnason, frá Elínarhúsi í Vestmannaeyjum, sonur Árna bónda Högnasonar að Skarðshlíð undir Eyjafjöllum. Hans kona Vilborg Þórðardóttir, Sveinssonar, ættuð úr Mýrdal. Hún var, áður en Sigurður fékk hennar, ekkja eftir Jón bónda Pétursson, sem lengi bjó í Elínarhúsi, og dó þar. — Sigurður hefir verið atorkumaður hinn mesti; keypti hér mikið af landi og hefir búið hér rausnarbúi framt að 37 árum. Nú er hann nær sjötíu ára að aldri og talsvert farinn að gefa sig með heilsu, og þar af leiðandi að hægja á sér; enda er honum það óhætt, því karl er fremur góðum efnum búinn og getur því tekið tíðina rólega, það sem eftir er. Sigurði og konu hans hefir ekki orðið neinna barna auðið, en Vilborg átti þrjú börn með fyrri manni sínum, tvær dætur og einn son, sem Jóhann heitir, og býr nú í Tabor, Canada. Hann er kvæntur Sólrúnu dóttur Guðmundar Guðmundssonar (sjá 1886), dugn-

aðar og merkismaður. Sigurður og kona hans hafa líka alið upp, fyrir það mesta, þrjá dóttursyni hennar, og eru tveir af þeim til heimilis hjá þeim enn, næstum fulltíða menn.

1875 — Gísli Einarsson, sonur Einars hreppstjóra að Hrífunesi í Skaftártungum, Bjarnasonar, Jónssonar. Gísli er albróðir séra Bjarna Einarssonar, prófasts á Mýrum, og Jóns bónda á Hemru. — Gísli er kvæntur Halldóru Árnadóttur, ekkju eftir Loft sál. Jónsson, sem hér að framan er getið, og hafa þau búið hér sæmdarbúi í 35 ár. Þau eiga þrjú börn, öll fullorðin og mjög myndarleg. Loftur sonur þeirra er nú, og hefir verið um nokkur ár, skólakennari við búnaðarskólann í Logan, Utah, merkur maður og vel látinn. En dæturnar eru giftar mönnum hér í bænum af innlendum ættum. — Um Gísla sjálfan hefi eg það að segja, að hann stendur í fremstu röð fyrirmyndarmanna hér. Mundi hafa verið talinn héraðshöfðingi í fyrri daga. Hann er hygginn og ráðsettur maður og náði talsverðri skólamentun á yngri árum sínum. Leiðandi maður í bygðarlagi voru, gestrisinn og höfðinglyndur.

1876 — Pétur Valgarðsson, sonur Valgarðs bónda í Valgarðshúsi við Reykjavík. Pétur keypti hér land og bjó hér rausnarbúi í 20 ár eða meir. Flutti hann síðan til Alberta í Canada og býr þar nú nálægt bæ, sem Tabor heitir. Hefir hann tekið þar lönd og farnast vel, enda er hann búhöldur hinn bezti. — Pétur er þríkvæntur; hét fyrsta kona hans Kristín. en ekki veit eg hverrar ættar; önnur kona hans hét Soffía Jónsdóttir frá Elínarhúsi í Vestmannaeyjum (sjá 1874). Þriðja konan heitir Jóhanna Jónsdóttir, ekkja eftir Guðmund Guðmundsson á Fögruvöllum í Vestmannaeyjum.

1878—(a) Sveinn Þórðarson beykir, frá Löndum í Vestmannaeyjum, sonur séra Þórðar prests að Höfðabrekku, Brynjólfssonar bónda á Skipagerði. Hans kona Helga Árnadóttir frá Mandal í Vestmannaeyjum, Hafliðasonar, ættuð úr Landeyjum. Sveinn bjó í Spanish Fork í 10—12 ár; flutti síðan til Castle Valley, tók þar land og bjó þar síðan til þess hann andaðist fyrir 3—4 árum. Sómamaður og vel látinn.

(b) *Jón Þorgeirsson,* sonur Þorgeirs bónda Þorgeirssonar á Eystra Dalbæ í Landbrotinu. Flutti hann ungur að

aldri til Vestmannaeyja og dvaldi þar í nokkur ár. Síðan fór hann vestur um haf og lenti í New York. Þaðan sigldi hann suður með ströndum Ameríku, suður fyrir Horn, og lenti í Kaliforníu; dvaldi þar um tíma, en flutti síðan til Utah og hefir dvalið hér síðan. Hefir hann mest af fengist við sauðahirðingu og er talinn "góður hirðir." Hann var kvæntur Guðrúnu Jónsdóttur, bónda Ingimundarsonar frá Önundarstöðum í Austur Landeyjum (sjá 1886), en skildi við hana fyrir mörgum árum síðan. Hún er nú dáin, en Jón heldur til í þorpi dálitlu, sem nefnt er Thistle, og er hann þar einsetumaður. Jón er talsvert hneigður til bóka, og á laglegt bókasafn, bæði á íslenzku og ensku.

(c) Eitthvað um þessar mundir, eða máske ári síðar, kom hingað *Jón Eyvindsson* frá Úlfsstöðum í Austur Landeyjum, sonur Eyvindar Eyvindssonar í Hallgeirseyjarhjáleigu. Heitir kona hans Vigdís, dóttir Jóns Sigurðssonar á Vilborgarstöðum í Vestmannaeyjum. Jón er trésmiður allgóður og bjuggu þau hjón hér í bænum líklega framt að 20 árum, en fluttu síðan til Alberta í Canada og eru þar nú

1880—(a) *Einar Jónsson* frá Eiríkshjalla í Vestmannaeyjum, sonur Jóns á Sámstöðum í Fljótshlíð, Halldórssonar sama staðar. Hans kona Guðrún Jónsdóttir, frá Stórumörk undir Eyjafjöllum, Jónssonar, Guðmundssonar,—Guðrún og Þorsteinn skáld Erlingsson eru systkinabörn. Einar fór heim í trúboðsferð 1888, en kom ekki aftur, því hann dó í Vestmannaeyjum. Hann var smiður góður.

(b) *Árni Árnason* frá Löndum í Vestmannaeyjum, sonur Árna Jónssonar frá Múlakoti í Fljótshlíð. Var Jón afi hans sá, er átti við huldukonuna forðum og getið er um í þjóðsögum vorum. Árni er kvæntur Sólveigu Sveinsdóttur, beykirs á Löndum í Vestmannaeyjum, Þórðarsonar prests að Höfðabrekku (d. 1840), Brynjólfssonar bónda á Skipagerði, Guðmundssonar. Árni er búhöldur góður, hefir keypt mikið af landi, og stundar landbúnað og er við góð efni. Kona hans er skírleiks og myndar kona og eiga þau mörg uppkomin börn.

(c) *Bjarni Bjarnason* yngri, frá Kirkjulandi í Austur Landeyjum, sonur Bjarna Bjarnasonar hins eldra (sjá 1886).

Bjarni keypti hér land og bjó um nokkur ár í Spanish Fork, flutti síðan norður að hafi og býr í Seattle. Hann er gullsmiður og "úrmakari", og talinn listfengur í þeirri iðn. Kona hans heitir Guðríður, dóttir Þorsteins bónda á Mýrstaðahvoli í Mýrdal.

*(d) Einar Eiríksson* frá Fagurlist í Vestmannaeyjum, sonur Eiríks bónda Runólfssonar að Lágukotey í Meðallandi. Hans kona Guðrún Nikulásdóttir*(?)* ættuð undan Eyjafjöllum. Einar lærði gullsmíði á yngri árum og stundaði þá iðn hér í þessum bæ í nokkur ár; síðar flutti hann til Castle Valley og tók þar land, og hefir stundað þar landbúnað og farnast vel. Skýrleiks og merkismaður og vel látinn af öllum.

1881—*(a) Halldór Jónsson* frá Reykjavík, sonur Jóns bónda á Sölfhól við Reykjavík, Jónssonar frá Langholti í Meðallandi, Jónssonar prests að Hnausum, bróður Steingríms biskups og séra Halldórs á Mosfelli, og þar var Halldór upp alinn. Hann er kvæntur Þórunni Guðmundsdóttur, bónda á Ásum í Gnúpverjahrepp í Árnessýslu, eins af hinum nafnkendu Hjálmholtsbræðrum, Þormóðssona frá Langholti í Flóanum, og voru þeir Bergssynir. Halldór hefir keypt hér land og búið fyrirmyndarbúi í 30 ár. Hjón þessi eru valin heiðurshjón og njóta virðingar og heiðurs hjá almenningi.

*(b) Runólfur Runólfsson* frá Vestmannaeyjum, í seinni tíð kallaður séra Runólfur. Hann er sonur Runólfs Magnússonar þar í eyjunum; ætt hans að öðru leyti mér ókunn. Var hann gerður hér að lúterskum missíónera presti í kring um 1891, og hefir hann svo verið við þau störf síðan, fyrst í Spanish Fork, þá austur í New Jersey, svo vestur við haf í Ballard, Wash., og síðast í Gaulverjabæ í Árnessýslu, og þar er hann nú. Kona hans heitir Valgerður Níelsdóttir ættuð úr Vestmannaeyjum.

*(c) Guðmundur Egilsson* frá Reykjavík, ættaður af Seltjarnarnesi. Hans kona Guðríður dóttir Guðmundar bónda Tómassonar á Þórustöðum í Grímsnesi, ættaður úr Biskupstungum. Guðmundur keypti land og bjó hér í nokkur ár. Er nú dáinn fyrir 22 árum, en ekkja hans lifir enn, komin á átt-

ræðisaldur, og er hjá syni þeirra Eríki, sem býr hér í bænum, kvæntur konu af dönskum ættum. Skýrleiks og myndar maður.

(d) *Eiríkur Ólafsson,* alment kallaður Eiríkur frá Brúnum. Var hann sonur Ólafs bónda í Ormskoti undir Eyjafjöllum. Hét kona hans Rúnveldur, dóttir Runólfs bónda á Kaldrananesi í Mýrdal. Hún dó á leiðinni hingað vestur og var grafin "austur í stöðum". Eiríkur bjó hér í Spanish Fork um nokkur ár, flutti síðan heim og dó þar.

(e) *Jón Jónsson,* oftast kallaður Jón vefari, því hann var um tíma í "Kóngsins Kaupmannahöfn" og lærði þar vefnað. Jón var ættaður úr Húnavatnssýslu, fremur vel greindur og hagorður dálítið. Hann átti fyrir konu Ingveldi dóttur Eiríks Ólafssonar, sem hér á undan er talinn. Jón er nú dáinn fyrir nokkrum árum, en ekkja hans giftist aftur enskum manni, Jones að nafni, og býr hún hér í Spanish Fork.

(f) *Halldór Jónsson,* kallaður litli Dóri, til aðgreiningar frá stóra manninum, sem talinn er fyrstur undir þessum tölulið. Þeir eru frændur; samt var þessi Halldór víst ættaður og uppalinn í Meðallandi í Skaftafellssýslunni. Kona hans er Guðrún Jónsdóttir, Einarssonar frá Hrísnesi. Fluttu þau hjón til Castle Valley fyrir 20 árum og námu land; þar hafa þau búið síðan og farnast fremur vel.

(g) *Bjarni Jónsson,* sonur Jóns Bjarnasonar, bróður Einars hreppstjóra í Hrífunesi. Bjarni dó hér sama árið sem hann kom, ókvæntur; átti samt einn son, Gísla að nafni, sem býr hér í bænum, kvæntur Kristínu dóttur Péturs Valgarðssonar.

1882—(a) *Eiríkur Eiríksson* frá Gjábakka í Vestmannaeyjum, sonur Eiríks Hanssonar bónda samastaðar. Hans kona Jónína Guðmundsdóttir, Árnasonar, frá Mandal; ættin úr Mýrdal. Eiríkur er húsasmiður mikill og hefir stundað þá iðn hér í bænum, svo árum skiftir. Hann smíðar líka og selur líkkistur, sér um jarðarfarir m. m. Hjón þessi eiga fjölda barna, öll skýr og vel gefin, og mjög snoturt heimili, og eru talin fyrirmyndarhjón.

(b) *Páll Árnason,* sonur Árna bónda á Vilborgarstöðum

í Vestmannaeyjum, Jónssonar frá Múlakoti (sjá 1880). Hans kona, Kristín Eiríksdóttir, ættuð úr Meðallandi Skaftafellssýslu, systir Einars gullsmiðs Eiríkssonar (sjá 1880). Páll á dálítið af landi, en stundar þó mest daglaunavinnu. Hjón þessi eru myndar hjón og vel látin. Þau eiga tvo syni og eina dóttur, sem fædd eru á Íslandi, en eru nú fullorðin; gift, og búa hér í bænum, Einar, giftur Magneu dóttur Magnúsar Einarssonar (sjá 1886); Árni, giftur Emilíu Einarsdóttur (sjá 1890) og Pálína, gift enskum manni, Turner að nafni, lyfsala hér í bænum.

(c) *Guðmundur Einarsson,* hálfbróðir Árna bónda í Stakkagerði í Vestmannaeyjum og Þórðar Diðrikssonar (sjá 1856). Hans kona Auðbjörg Bjarnadóttir, Bjarnasonar bónda á Löndum í Hvalneshreppi, í Gullbringusýslu. Guðmundur dó í Spanish Fork sama sumarið sem hann kom, en ekkja hans giftist aftur Hjálmari Björnssyni af Vatnsnesi í Húnavatnssýslu (sjá 1885). Hann lézt í febrúar 1910; hinn merkasti maður.

(d) *Eyjólfur Eiríksson,* ættaður úr Vestmannaeyjum, kvæntur Jarðþrúði Runólfsdóttur, ættaðri af Kjalarnesi. Eyjólfur lézt fyrir fjórum árum, en ekkja hans og fjögur börn búa hér í bænum .

1883—(a) *Bjarni Bjarnason,* frá Gerði í Vestmannaeyjum, sonur Bjarna Sveinssonar bónda á Pétursey í Mýrdal, Alexanderssonar frá Sólheimum í Vestur Skaftafellssýslu. Hans kona Sigríður Jónsdóttir, Guðmundssonar bónda í Neðridal undir Eyjafjöllum. Bjarni er hygginn og ráðsettur maður, hefir keypt sér landblett og stundar landbúnað ásamt daglaunavinnu. Hjón þessi eiga engin börn, en hafa alið upp eina fósturdóttir, sem Þuríður heitir, og er gift manni af sænskum ættum, og búa þau hér í bænum.

(b) *Þórarinn Bjarnason,* sonur Bjarna bónda á Hruna í Fljótshverfi í V.-Skaftafellssýslu, Magnússonar bónda sama staðar. Móðir Þórarins hét Karítas Jakobsdóttir, og var af Sólheima-ætt. Þórarinn er tvíkvæntur, hét fyrri kona hans Brynhildur Jónsdóttir, bónda Bjarnasonar á Efriey í Meðallandi; sú síðari heitir Ingveldur, dóttir Ingimundar bónda á Eyjum í Kjós. — Þórarinn bjó í Spanish Fork

nokkur ár, flutti svo til Castle Valley og dvaldi þar um hríð og fékkst við landbúnað. Þaðan flutti hann til Springville og þar er hann nú og stundar algenga daglaunavinnu; merkis- og greindar-maður.

(c) *Ólafur Eiríksson* frá Brúnum, Ólafssonar frá Ormskoti (sjá 1881). Hans kona Sigurbjörg Einarsdóttir, Jónssonar frá Dölum í Vestmannaeyjum. Ólafur er málari og talinn listfengur í þeirri iðn; fluttu hjón þessi norður að hafi fyrir nokkrum árum síðan og búa nú í Blaine, Washington.

(d) *Tómas Ingjaldsson,* frá Reykjavík, sonur Ingjalds og Margrétar, sem lengi bjuggu í Engey. Kona hans Ágústa Sigurðardóttir, ættuð að norðan. Tómas keypti land og bjó hér góðu búi í mörg ár. Hann er nú dáinn, en ekkja hans giftist aftur Kristjáni Guðnasyni (sjá 1886), og fluttu þau héðan til Alberta í Canada og býr hún þar, en Kristján er hér í Spanish Fork og stundar smíðavinnu.

(e) *Finnbogi Björnsson,* sonur Björns bónda Björnssonar að Hjallanesi á Landi, bróðursonur Mrs. Holt, sem hér að framan er nefnd. Kona Finnboga heitir María og er af dönskum ættum. Finnbogi er sauðahirðir og fæst alla jafna við þann starfa. Góður drengur og vel látinn.

(f) *Þorsteinn Jónsson,* vanalega kallaður Þorsteinn "póli" eða "pólití", af því hann hafði gegnt lögreglumannsstöðu í Reykjavík um nokkur ár. Hann var sonur Jóns bónda Guðnasonar á Strandarhöfða í Út-Landeyjum. Kona hans heitir Sigríður, dóttir Jóns Bjarnasonar, bróður Einars hreppstjóra í Hrífunesi. Þorsteinn og kona hans fluttu til Castle Valley 1889 og námu þar land, og hafa búið þar síðan og farnast vel. Þorsteinn er nú látinn fyrir 3—4 árum, en ekkja hans býr enn í Castle Valley, í dálitlu þorpi, sem Cleveland heitir.

1884—*Sigurður Þorleifsson,* sonur Þorleifs Eyjólfssonar, bónda á Núpi undir Eyjafjöllum. Hann kom hingað frá Mountain í North Dakota. Sigurður er tvíkvæntur; hét fyrri kona hans Guðný Jónsdóttir, Oddssonar frá Bakka í Austur-Landeyjum, en sú síðari heitir Hjálmfríður Hjálmarsdóttir Filippssonar í Kastala í Vestmannaeyjum. Ætt sú er úr Borgarfjarðarsýslu. Sigurður er vel sinnugur maður

og trésmiður allgóður, og stundar hann þá iðn hér í bænum.

1885—(a) *Eggert Kristjánsson,* frá Steðja á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu, sonur Kristjáns bónda Arngrímssonar á Vatnsleysu í Fnjóskadal, Jónssonar, líklega samastaðar. Eggert er kvæntur Sezelíu Jónsdóttur, bónda Péturssonar á Kúfhóli í Austur Landeyjum en fósturdóttur Bjarna Bjarnasonar eldra frá Kirkjulandi (sjá 1886). Eggert er dugnaðar- og atorkumaður hinn mesti. Hefir hann keypt hér talsvert af landi og stundar landbúnað í sambandi við "vatnsmeistara" störf, sem hann gegnir nú fyrir bæjarstjórn vora.. Í stjórn þessa bæjar sat hann um tveggja ára tíma og þótti koma vel fram. Hann er og einnig "Commander" af þeirri deild Maccabee félagsins, sem er í þessum bæ. Hjón þessi eiga fjölda barna, og mesta myndarheimili hér í bænum, og eru prýðisvel látin í hvívetna.

(b( *Jóhannes Kristjánsson,* bróðir Eggerts. Hann var kvæntur Vilborgu Sigurðardóttur, bónda á Stóruvatnsleysu á Vatnsleysuströnd, en hún skildi við hann og flutti til Canada. Jóhannes var fyrst í Nýja Íslandi og fékst þar eitthvað við verzlun, en hér hefir hann mestmegnis verið farandsali.

(c) *Sigurður Hannesson,* frá Hvoli í Ölfusi, sonur Hannesar bónda Hannessonar samastaðar. Kona hans er Sigríður Gísladóttir, Eyjólfssonar frá Kröggólfsstöðum í Ölfusi. Sigurður keypti land og bjó hér fyrirmyndarbúi í mörg ár. Hann varð bráðkvaddur 13. Júní 1910. Ekkja hans býr hér með sonum sínum, dugnaðar og myndar kona.

(d) *Sigurður Jónsson,* frá Reykjavík, sonur Jóns bónda í Akrakoti á Álftanesi, Sigurðssonar frá Bakkakoti í sömu sveit. Hann er kvæntur Jóhönnu Guðmundsdóttur frá Mandal í Vestmannaeyjum, Árnasonar, ættaður úr Mýrdal. Sigurður hefir keypt land og stundar landbúnað ásamt daglaunavinnu og farnast vel, því hann er dugnaðar og starfsmaður hinn mesti. Kona hans er myndarkona, og eiga þau mörg börn og snoturt heimili hér í bænum.

(e) *John Þorláksson* (danski Jón), sonur Þorláks á Dúfþekju í Hvolhrepp, Jónssonar í kirkjulækjarkoti. Jón er maður ókvæntur; hefir stundað hér algenga vinnu, en er

nú nokkuð hniginn að aldri og heldur til hjá mági sínum og systur, Bjarna Bjarnasyni (sjá 1883).

(f) *Gísli Gíslason,* frá Jónshúsi í Vestmannaeyjum; er kvæntur Steinunni Þorsteinsdóttur, ættaðri úr Landeyjum. Gísli vann hér alla tíð fyrir járnbrautarfélagið "Denver and Rio Grande"; mesti ráðvendnis og dugnaðarmaður og talinn vel við efni. Hann lézt í Desember 1910.

(g) *Eyjólfur Guðmundsson,* frá Eyjabakka í Húnaþingi, vel kunnur um alt Norðurland fyrir hagsýni við æðarfuglsvörp. Hann er sonur Guðmundar bónda og skálds á Illugastöðum á Vatnsnesi, Ketilssonar bónda á Móbergi í Langadal. Heitir kona hans Valgerður Björnsdóttir frá Litluborg í Víðidal. Eyjólfur hefir verið dugnaðarmaður hinn mesti og stundað algenga daglaunavinnu. Þessi hjón eru nú, þegar þetta er ritað (1911) komin á nýræðisaldur og hafa lifað saman í hjónabandi rúm 60 ár. — Með Eyjólfi komu hingað í sama mund tengdasynir hans þrír: *Hjálmar Björnsson,* ættaður úr Húnavatnssýslu, giftur Eygerði; *Bóas Arnbjörnsson,* ættaður úr Skriðdal í Norður-Múlasýslu, giftur Bjarnlaugu, og *Jón Björnsson,* ættaður af Hornströndum, giftur Rósu. Eru þessir menn allir látnir nú, en ekkjur þeirra og fjölskyldur búa hér í bænum, mest alt fulltíða fólk. — Með Eyjólfi komu líka í sama flóðinu synir hans tveir: *Ketill,* giftur Sigríði Runólfsdóttur hins gaulverzka, og búa þau hér í bænum, og *Eyjólfur,* dálítill piparsveinn, sem heldur til hjá foreldrum sínum, vænn drengur og smiður góður, en frekar heilsutæpur.

1886—(a) *Árni Helgason,* sonur Helga bónda Jónssonar á Kornhóli í Vestmannaeyjum, Hálfdánarsonar frá Klasbarða í Út-Landeyjum. Hann er kvæntur Sezelíu Vigfúsdóttur, Einarssonar (sjá 1888).

(b) *Guðmundur Guðmundsson* frá París í Vestmannaeyjum, sonur Guðmundar bónda á Sauðhúsvelli undir Eyjafjöllum, Guðmundssonar í Stórumörk. Hans kona Jóhanna Guðmundsdóttir Hávarðssonar bónda í Guðmundarhúsi í Vestmannaeyjum. Guðmundur var utanbúðarmaður og hafnsögumaður þar í eyjunum í 15 ár og ávann sér hylli sökum dugnaðar og ráðdeildar. Hann bjó hér í Spanish Fork

í mörg ár, flutti síðan til Alberta í Canada og nam þar land. Þar bjó hann í sex ár, seldi síðan land sitt með góðum hagnaði, flutti aftur til Utah og settist að í Mapleton hjá tengdasyni sínum og dóttur, og líður þeim þar vel. Guðmundur er hygginda- og ráðdeildarmaður, ætíð sístarfandi eitthvað nytsamt. Hjón þessi eru nú komin á áttræðis aldur, en samt við þolanlega heilsu. Þau eiga sex dætur og allar giftar.

(c) *Björn Magnússon,* frá Ljótarstöðum í Austur-Landeyjum, sonur Magnúsar Björnssonar, sem lengi bjó á Bergþórshvoli, bróður Þorvaldar óðalsbónda á Núpakoti (nú Þorvaldseyri). Hans kona er María Guðmundsdóttir frá Batavíu í Vestmannaeyjum, ekkja eftir Jóhannes Jónsson, dáinn 1895 (sjá 1892). Björn fór til Alaska, þegar gullsýkin gaus þar upp, og var þar í 2—3 ár og varð vel til fjár. Hann býr nú í grend við bæinn Blaine í Washington og er talinn vel við efni; merkur maður og vel látinn.

d) *Vigfús Guðmundsson,* frá Vestmannaeyjum, sonur Guðmundar bónda á Löndum, Erlindssonar á Heylæk í Landeyjum. Kona hans er Sigríður Vigfúsdóttir, Erlindssonar á Hlíðarenda í Fljótshlíð, Péturssonar samastaðar, Brynjólfssonar prests á Breiðabólsstað. Vigfús er hinn gildasti bóndi, hefir keypt hér mikið af landi og býr rausnarbúi. Hjón þessi eiga engin börn; hafa tekið fósturson af hérlendum ættum.

e) *Jón Jónasson,* sonur Jónasar á Kirkjulandi Jónssonar hreppstjóra á Önundarstöðum, Þorsteinssonar. Kona hans er Guðný Sigurðardóttir bónda á Kúfhóli Sigurðssonar í Búðarhólshjáleigu, Eyjólfssonar. Jón er vel við efni, hefir keypt mikið af landi, er einnig góður trésmiður og stundar því bæði landbúnað og smíðavinnu. Þetta eru merkishjón og eiga mörg börn.

(f) *Eysteinn Jónasson,* bróðir Jóns. Hann dó hér í Spanish Fork fyrir nokkrum árum síðan, ókvæntur, dugnaðarmaður og drengur hinn bezti.

(g) *Sæmundur Jónsson* frá Fljótsdal í Fljótshlíð, sonur Jóns bónda á Kaldrananesi í Mýrdal. Hann var kvæntur Kristínu, dóttur Bjarna Bjarnasonar eldra frá Kirkju-

landi, sem hér er getið á eftir. Sæmundur var góður trésmiður og bygði fjölda húsa hér í bænum á meðan honum entist aldur til. Hann er nú dáinn fyrir 6 árum, en ekkja hans býr hér í bænum og synir þeirra tveir, Guðjón og Einar, báðir smiðir góðir og dugnaðarmenn.

(h) *Bjarni Bjarnason* eldri frá Kirkjulandi í Austur-Landeyjum; hugvitsmaður hinn mesti og listfengur smiður. Bjarni faðir hans bjó á Miðhvoli í Mýrdal og var Einarsson. Kona Bjarna Bjarnasonar hét Katrín, dóttir Jóns hreppstjóra á Önundarstöðum, Þorsteinssonar, Hreinssonar frá Nyrstahvoli í Mýrdal. Bjarni bjó á Kirkjulandi í 40 ár; var hann um langt skeið hreppstjóri og sáttasemjari í sveit sinni. Hann andaðist hér í Spansh Fork hjá tengdasyni sínum og dóttur fyrir 10 árum síðan, þá rúmlega áttræður að aldri.

(i) *Þorbjörn Þorbjörnsson* frá Kirkjulandshjáleigu í Landeyjum. Hann átti fyrir konu Þorgerði Jónsdóttur frá Bakka í sömu sveit. Þorbjörn andaðist 1887, en ekkja hans giftist aftur Guðmundi Jónssyni (sjá 1890).

(j) *Vigfús Eiríksson* frá Boston í Vestmannaeyjum. Var faðir hans ættaður úr Mýrdal. Kona hans hét Þorgerður Árnadóttir, Indriðasonar úr Dal undir Eyjafjöllum; nú dáin fyrir löngu. Vigfús er maður hniginn að aldri, en býr enn hér í bæ og hefir stundað daglaunavinnu.

(k) *Kristján Guðnason,* sonur Guðna snikkara Guðmundssonar í Vestmannaeyjum og Málfríðar Eiríksdóttur frá Gjábakka. Kristján kvæntist ekkju Tómasar sál. Ingjaldssonar (sjá 1883). Er hún nú í Alberta, Canada, en Kristján hér; smiður er hann allgóður og stundar þá iðn.

(l) *Markús Vigfússon,* frá Vestmannaeyjum, sonur Vigfúsar í Hólshúsi, Jónssonar á Rimakoti í Austur-Landeyjum, Einarssonar, Ormssonar. Kona hans heitir Guðríður, fædd Woolf, af dönskum ættum í föðurætt, en móðir hennar var íslenzk. Markús stundar hér daglaunavinnu.

(m) *Jón Ingimundarson,* sonur Ingimundar bónda í Miðey Jónssonar, ættaður úr Landeyjum. Hans kona Þórdís Þorbjörnsdóttir frá Kirkjulandshjáleigu. Jón er dáinn fyrir mörgum árum ,en ekkja hans og synir, sem alt er mynd-

ar fólk, flutti til Idaho og nam þar land í grend við þorp eitt, sem Alexander heitir; þar býr það nú.

(n) *Sigurður Ólafsson,* frá Vatnshóli í Austur-Landeyjum, Guðmundssonar frá Arnarhóli. Hans kona Guðlaug Nikulásdóttir, ættuð undan Eyjafjöllum. Eru hjón þessi bæði dáin fyrir nokkrum árum, en synir þeirra: Einar, Guðni og Sigurður, eru enn hér á slóðum.

(o) *Magnús Einarsson,* frá Reykjavík, sonur Einars Þorlákssonar, ættaður úr Hreppunum. Sá Þorlákur var Ketilsson og bjó á Minnihömrum. Magnús er tvíkvæntur; hét fyrri kona hans Sigríður Guðmundsdóttir Guðmundssonar bónda á Brúarhrauni í Hafnarfirði. Sú síðari hét Guðrún og var einnig Guðmundsdóttir, ættuð úr Kálfatjarnarhverfi á Vatnsleysuströnd. Magnús er járnsmiður og rekur hann þá iðn hér í bænum.

(p) *Guðmundur Magnússon,* sonur Magnúsar Einarssonar frá Reykjavík, þess er á undan er getið; ókvæntur.

1887—(a) *Þorsteinn Pétursson,* sonur Péturs Erlendssonar á Vatnsskarðshólum í Mýrdal. Hans kona Sigríður Eiríksdóttir, Hannessonar, ættuð undan Eyjafjöllum. Þorsteinn er járnsmiður mikill og stundar hann þá iðn hér í bænum.

(b) *Björn Runólfsson* úr Vestmannaeyjum, sonur Runólfs bónda Magnússonar, en bróðir séra Runólfs Gaulverjaprests. Hans kona Sigríður Sigvaldadóttir, ættuð úr Skagafirði. Björn er smiður góður, bæði á tré og málma; mjög hagur við alt, sem hann leggur hönd á. Stundar hann aðallega smíðavinnu.

(c) *Jón Jónsson,* frá Hólshúsi í Vestmannaeyjum, sonur Jóns Bjarnasonar (sjá 1857). Heitir kona hans Vilborg Jónsdóttir bónda á Ketilsstöðum í Mýrdal, Þorkelssonar á Hriggum. Jón er maður vel við efni, af sumum talinn ríkastur Íslendingur hér. Hann hefir keypt mikið af landi, en stundar samt ekki landbúnað. Hann er einlægt í járnbrautarþjónustu.

(d) *Eggert Ólafsson,* frá Vestmannaeyjum, sonur Ólafs Gíslasonar á Gjábakka. Hans kona Margrét Markúsdóttir, Vigfússonar (sjá 1886). Eggert er búsýslumaður allgóður

og á nokkrar ekrur af landi, sem hann hefir keypt. Stundar að jafnaði járnbrautarvinnu.

1888—(a) *Þorvarður Sigurðsson,* frá Reykjavík, sonur Sigurðar bónda Valtýssonar á Kornmúla í Fljótshlíð; ættaður undan Eyjafjöllum. Hans kona Guðbjörg Skúladóttir, Hjálmarssonar, skálds, Jónssonar, sem oftast er kendur við Bólu. Þorvarður er hygginn og ráðsettur maður, smiður góður, en stundar þó mest daglaunavinnu. Þau hjón eiga engin börn.

(b) *Vigfús Einarsson,* frá Miðhúsum í Vestmannaeyjum, sonur Einars Jónssonar bónda á Loftsstöðum í Mýrdal. Hann er kvæntur Guðrúnu Guðmundsdóttur, ættaðri úr Landeyjum. Hjón þessi eru bæði komin á áttræðis aldur; hefir Vigfús verið hinn mesti dugnaðarmaður og ætíð stundað daglaunavinnu, en er nú farinn að gefa sig, mest vegna sjóndepru, sem á hann hefir strítt um nokkur síðastliðin ár.

(c) *Guðmundur Þorsteinsson,* Jónssonar læknis, sem lengi var í Vestmannaeyjum. Hann er kvæntur Ágústu Einarsdóttur Jónssonar (sjá 1880).

1890—(a) *Bjarni Jónsson,* frá Vestmannaeyjum, sonur Jóns bónda Þorkelssonar á Litluhólum í Vestur Skaftafellssýslu. Hann er kvæntur Guðmundu Eyjólfsdóttur, Guðmundssonar frá Eyjabakka í Húnavatnssýslu, sem áður er getið. Bjarni er dugnaðarmaður hinn mesti, hefir keypt talsvert af landi og býr hér þriflegu búi. Hann stundar einnig húsamálningu og er talinn góður málari.

(b) *Jóhann Halldórsson,* frá Reykjavík; um ætt hans veit eg ekki annað en það, að hann var talsvert skyldur Halldóri Jónssyni (sjá 1881). Jóhann var kvæntur Guðrúnu Eymundsdóttur frá Dilksnesi í Skaftafellssýslu. Bjuggu þau hér og í Cleveland, Utah, um nokkur ár, flutta síðan heim til Íslands og dó Guðrún við Djúpavog fám dögum eftir að þau stigu á land, en Jóhann druknaði á Seyðisfirði eitthvað ári síðar.

(c) *Guðmundur Jónsson,* sonur Jóns Einarssonar á Hermundarfelli í Þistilfirði í Norður Þingeyjarsýslu. Hann er tvíkvæntur; hét fyrri kona hans Ástríður Vilhjálmsdóttir, ættuð úr Vopnafirði, dáin 1899; en sú síðari hét Þorgerður

Jónsdóttir Oddssonar frá Bakka í Austur Landeyjum, dáin 1911. Guðmundur er trésmiður og stundar hann þá iðn hér í bænum.

*(d) Guðmundur Eyjólfsson,* sonur Eyjólfs bónda Guðmundssonar frá Eyjabakka á Vatnsnesi í Húnavatssýslu (sjá 1885). Hans kona Ingibjörg Jónatansdóttir, Davíðssonar frá Marðarnúpi í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Guðmundur er byggingameistari mikill (brick-mason) og stundar hann þann starfa hér í bænum. Þau hjón eiga 6 börn, fjóra syni og tvær dætur, öll vel gefin. Hafa dætur þeirra gengið mentaveginn og eru nú skólakennarar. Þær eru líka söngkonur svo atkvæðum sætir.

*(e) Ólafur Sigurðsson,* sonur Sigurðar bónda á Kúfhóli í Austur Landeyjum, Sigurðssonar í Búðarhólshjáleigu, Eyjólfssonar. Ólafur átti fyrir konu Jóhönnu Jónsdóttur, prests Bjarnasonar úr Miðmörk, og er hún dáin fyrir nokkrum árum; en Ólafur lézt 15. Júní 1911, brann til dauða í íbúðarhúsi sínu í námabænum Winterquarters hér í Utah, hvar hann átti heima síðastliðin 20 ár og stundaði námavinnu.

*(f) Guðmundur Magnússon,* sonur Magnúsar bónda Diðrikssonar á Hólmanum í Austur Landeyjum. Hann dó hér stuttu eftir hingaðkomu sína. En kona hans, sem Hildur heitir — um ætt hennar veit eg ekki — flutti vestur að hafi og býr nú í Blaine, Wash.

*(g) Ísleikur Ólafsson,* sonur Ólafs bónda á Vaðmúlastöðum í Austur Landeyjum, Ísleikssonar á Efstugrund undir Eyjafjöllum, Pálssonar. Hann er kvæntur Elísabetu Eiríksdóttur frá Gjábakka í Vestmannaeyjum, Hanssonar Ísleikur er dugnaðar maður, hefir keypt dálítið af landi og á laglegt heimili hér í bænum. Þau hjón eiga tvö börn, bæði fullorðin, son og dóttur, og búa þau hér í bænum.

*(h) Einar E. Johnson,* ættaður úr Þingeyjarsýslu. Hans kona Ingbjörg Árnadóttir bónda Sveinssonar, prests á Berufirði, Péturssonar.

1891—*(a) Jón Sigmundsson,* frá Vestmannaeyjum, sonur Sigmundar bónda að Reynir í Mýrdal; smiður góður og dugnaðarmaður, nú dáinn fyrir þrem árum. Hann var kvæntur Guðnýju Guðnadóttur bónda í Hallgeirseyjarhjáleigu

í Austur-Landeyjum, Guðnasonar bónda á Árnahóli í Út-Landeyjum, og býr hér í bænum með sonum sínum fjórum.

(b) *Markús Erlindsson,* Ingjaldssonar úr Kirkjubæ í Vestmannaeyjum; býr hér ókvæntur.

(c) *Einar Bjarnason,* sonur Bjarna í Dölum í Vestmannaeyjum, ættaður úr Mýrdal. Hans kona Steinvör Lárusdóttir Jónssonar á Búastöðum í Vestmannaeyjum; ættuð úr Mýrdal. Fluttu vestur að hafi fyrir nokkrum árum og búa í Blaine síðan. Einar andaðist 29. Maí 1911, rúmra 50 ára að aldri, dugnaðar- og atorkumaður.

1892—(a) *Jón Hreinsson,* sonur Hreins bónda í Brandshúsi í Vestmannaeyjum, Jónssonar hreppstjóra á Önundarstöðum, Þorsteinssonar. Jón var kvæntur Kristínu Guðmundsdóttur frá Mandal, Árnasonar úr Mýrdal. Hún lézt 26. Maí 1910. Jón var fyrir eina tíð verzlunarstjóri hjá "Verzlunar og Iðnaðarfélagi Íslendinga í Spanish Fork", og leysti hann þann starfa vel af hendi. Hann býr nú hér í bænum með börnum sínum; atorkumaður og drengur bezti.

(b) *Magnús Gíslason,* frá Norðurgarði í Vestmannaeyjum, sonur Gísla bónda á Grímsstöðum í Út-Landeyjum, Magnússonar samastaðar. Hans kona er Guðbjörg Jónsdóttir bónda Sigurðssonar að Völlum á Kjalarnesi. Magnús er hygginn og ráðsettur maður, stundar daglaunavinnu.

(c) *Ólafur Jónsson,* frá Lágafelli í Austur Landeyjum. Hann fór héðan til Klondyke og dvaldi þar 2—3 ár, en er nú í Kaliforníu, ókvæntur, en drengur bezti.

(d) *Sverrir Jónsson,* frá Vestmannaeyjum, sonur Jóns Sverrissonar, ættaður úr Skaftafellssýslu. Hans kona Guðrún Pálsdóttir, ættuð úr Borgarfirði. Sverrir er dáinn fyrir þrem árum, myndar og dugnaðar maður.

(e) *Ólafur Helgason,* frá Vestmannaeyjum, sonur Helga bónda í Björnskoti undr Eyjafjöllum, Ólafssonar á Ormskoti, Sigurðssonar að Hlíð undir Eyjafjöllum. Ólafur er kvæntur Þorbjörgu Magnúsdóttur Gíslasonar, sem getið er hér að framan; greindar og dugnaðar maður.

(f) *Jakob Björnsson,* frá Norður-Garði í Vestmanna-

eyjum, sonur Björns bónda Björnssonar á Rauðafelli undir Eyjafjöllum, Stefánssonar samastaðar. Voru þeir nafnar, Birnirnir, báðir, orðlagðir hesta og dýra læknar. Kona Jakobs heitir Guðrún Jónsdóttir, Erlindssonar bónda á Atgeirsstöðum í Fljótshlíð, Péturssonar á Heylæk; voru feðgar þessir allir þjóðhagasmiðir, en sérstaklega var þó til þess tekið, hvað þeir smíðuðu fallega söðla og vandaða rokka. Jakob hefir keypt sér land og býr hér þriflegu búi.

(g) *Einar Vigfússon,* sonur Vigfúsar bónda Einarssonar á Miðhúsum (sjá 1888). Hans kona Jónína Þórarinsdóttir, Bjarnasonar frá Hruna í Fljótshverfi í Vestur-Skaftafellssýslu (sjá 1883). Einar stundar námavinnu og er nú sem stendur til heimilis í námabænum Winterquarters hér í Utah.

(h) *Jóhannes Jónsson,* Ögmundssonar, ættaður úr Mýrdal; dó í Spanish Fork 1895. Hann var kvæntur Maríu Guðmundsdóttur frá Batavíu í Vestmannaeyjum, nú kona Björns Magnússonar í Blaine, Wash. (sjá 1886).

(i) *Þorbjörn Magnússon,* frá Ljótarstöðum í Landeyjum, sonur Magnúsar Björnssonar, sem lengi bjó að Bergþórshvoli—bróðursonur Þorvaldar á Núpakoti; ókvæntur maður, en bezti smiður og stundar þá iðnaðargrein.

(j) *Árni Árnason,* frá Vestmannaeyjum. Hans kona Jóhanna Lárusdóttir frá Búastöðum. Voru hjón þessi hér að eins fá ár, en fóru síðan alfarin heim til ættstöðva sinna, Vestmannaeyja, og eru þar nú.

(k) *Gísli Gíslason,* sonur Gísla Böðvarssonar á Miðhúsum í Hvolhrepp, ættaður undan Eyjafjöllum. Hans kona Rannveig dóttir Þórarins Bjarnasonar frá Hruna í Fljótshverfi í Vestur Skaftafellssýslu. Gísli stundar námavinnu og býr nú í bænum Winterquarters, Utah.

1897 — *Einar Magnússon,* sonur Magnúsar Einarssonar frá Reykjavík (sjá 1886) Hans kona Margrét Sigurðardóttir, ættuð af Eyrarbakka. Hjón þessi voru hér í fáein ár, en fluttu síðan vestur að hafi og búa nú í Blaine, Wash.

1909 — *Magnús Magnússon,* Melsted, sonur Magnúsar bónda á Mel í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu. Hans kona Vilborg Magnúsdóttir Einarssonar frá Reykjavík (sjá 1886).

Magnús er bókbindari. Hjón þessi fluttu vestur að hafi og búa nú í Blaine, Wash.

(b) *Sigurrós Hjálmarsdótir,* ekkja eftir Jónatan Davíðsson, mála-Davíð, sem lengi bjó á Spákonufelli í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Hún kom til Ameríku 1888, en hingað fyrir 2 árum, og er nú hjá tengdasyni sínum og dóttur, Mr. og Mrs. Guðni Eyjólfsson.

Síðast viljum vér telja fáeina landa, sem hingað hafa komið, sumir fyrir nokkuð löngu, en oss er ókunnug ætt þeirra og í sumum tilfellum hvaðan þeir komu, og því eru þeir ekki taldir með hér að framan:

*Jakob Jónsson,* ættaður úr Húnavatnssýslu, bjó lengi góðu búi í Castle Valley, en er nú sem stendur heima á Íslandi í trúboðs erindagerðum fyrir kirkju Mormóna.

*Erlendur Árnason;* kom hingað frá Dakota; um ætt hans veit eg ekki. Hann stundar námavinnu og er oftast í Scofield eða Winterquarters; geðugur karl en nú nokkuð hniginn að aldri.

*Júlíus Jónsson,* sonur séra Jóns Bjarnasonar prests í Miðmörk. Hét kona hans Gróa Þorláksdóttir, Benediktssonar skálds, þess er druknaði í Kötluhlaupinu með séra Páli og Öfjörd sýslumanni snemma á 19. öld—á Mýrdalssandi(?)—Júlíus stundar námavinnu og á heima í Scofield.

*Þórður Þórðarson* frá Vestmannaeyjum, átti Guðrúnu ekkju eftir Einar Jónsson fyrir konu (sjá 1880). Hann er nú dáinn.

*Helgi Ólafsson;* hans kona hét Anna; dvöldu þau hér að eins fá ár, fluttu svo vestur að hafi og eru nú í Blaine.

*Jón Arnoddsson,* sonur Arnodds bónda á Arnarbóli í Út-Landeyjum; hét fyrri kona hans Ólöf Jónsdóttir, en sú síðari Ingveldur Árnadóttir, ættuð úr Vestmannaeyjum. Þau fluttu til Canada fyrir nokkrum árum og eru nú í Alberta.

*Guðmundur Eiríksson,* frá Reykjavík. Kom hingað frá Canada og dvaldi hér 3—4 ár. Hann er ljósmyndasmiður og fékst svolítið við verzlun í sambandi við handiðn sína. Hans kona Oddfríður Halldórsdóttir, systir séra Lárusar prests á Breiðabólstað. Hjón þessi fluttu til California og búa nú í San Diego.

## III. ÞÁTTUR.

Nú höfum vér talið upp og getið að einhverju leyti um alla þá landa, sem komið hafa til Utah, og dvalið hér um lengri og skemmri tíma. Um tildrögin til þess, að landar byrjuðu að flytja til Utah, er getið hér að framan. Fram að árinu 1886 komu hingað fáir utan þeir væru Mormónar. En þá skifti um. Fóru menn eftir það að koma hingað án þess að taka nokkurt tillit til trúarbragða.

### *Búnaðarhættir.*

Mér finst eðlilegt, að einhverjir af lesendum kynnu að spyrja, hvernig því væri varið að allir Íslendingar, sem talað er um að fáist við landbúnað, lifi og eigi heimili í bænum Spanish Fork, og vil eg reyna að svara því, til þess að byggja fyrir allan misskilning. — Því er svoleiðis varið, að bærinn Spanish Fork liggur hér um bil í miðjum dal þeim, sem nefndur er Utah Valley; en í kringum bæinn á alla vegu er víðátta mikil, mörg þúsund ekrur af ágætasta akuryrkjulandi, sem náttúrlega er alt upptekið og yrkt og eign bænda. En í staðinn fyrir að búa á löndum sínum, býr meginþorri bændanna inní bænum sjálfum, og sækja þeir svo þaðan í ýmsar áttir daglega út á bújarðir sínar; ekki frekar Íslendingar heldur en annara þjóða menn. Af þessu fyrirkomulagi leiðir það, að margir stunda bæði landbúnað og ýmsa aðra atvinnu jafnhliða. Landeignir bænda hér í þessum bæ eru af ýmsum stærðum, alt frá fimm ekrum og upp. Ekki veit eg með vissu um landeign hvers eins, en það mun óhætt að gizka á, að þeir eigi 5 ekrum minst, upp í 50 ekrur mest, og stunda þeir landbúnaðinn eingöngu, sem mest eiga af landinu. — Engir eru hér lærðir menn á meðal vor; þar af leiðir, að engir gegna embættum. Engir vinna hér heldur við verzlun, eða því sem næst engir; ef til vill stúlkur svolítið í viðlögum. En handverksmenn eru margir þeirra ágætir og skara í sumum tilfellum langt fram úr annara þjóða mönnum. Þannig er mesti og bezti trésmiðurinn í bænum, bezti járnsmiðurinn, bezti málarinn, bezti múrsteinsleggjarinn og

bezti úrsmiðurinn, allir Íslendingar. Já, og ekki má heldur gleyma kvenþjóðinni, því mestu hannyrðakonur bæjarins eru íslenzkar.

*Skólamál.*

Um þau er lítið að segja. Hér eru samt nú orðið ágætir barnaskólar, og háskólar, og hafa Íslendingar ekki verið neinir eftirbátar annara með að láta börn sín ganga á alþýðuskólana. Til æðri skóla hafa fáir getað komið börnum sínum sökum fátæktar. Barnaskóla kennarastaða er það hæsta, sem nokkurt barn af ísl. ættum hefir komist. Tveir kvenmenn og einn karlmaður fást hér við skólakenslu.

*Skemtanir.*

Um þær er ekki að tala meðal Íslendinga sjálfra nú orðið; þeir verða að sækja það alt til annara þjóða fólks. Það lítið, sem af þeim var haft um hönd vor á meðal, er nú undir lok liðið. Það var þó einu sinni bygt hér samkomuhús og í því haldnar margar gleðisamkomur upp á hreina íslenzku. En nú eru þeir dagar liðnir og þeir, sem mest gengust fyrir því, seztir í helgan stein.

---

*Félagsmál.* Félagsmálum vor á meðal hefir yfir höfuð verið þannig varið, að oss væri mestur sómin í því að minnast þeirra sem minst; en þó, úr því verið er að rita „Landnámssögu“ á annað borð, verður varla hjá því komist.

*Verzlun:* Eins og áður er ávikið, fæst nú enginn við þeim starfa. — Hér var fyrir eina tíð stofnað félag og kallað „Verzlunar og Iðnaðarfélag“, og lifði það aðeins um 6 ára tíma.

*Hið Lúterska safnaðarfélag.* Gékst síra Runólfur og fleiri góðir menn fyrir stofnun þess; en lúterskt kirkjufélag „austur í

stöðum“: „The General Counsil“ bygði hér kirkju, vígði hana til guðsþjónustugjörða og Runólf til prests. Gekk það félag á hálfgerðum tréfótum og fór síðast um koll eftir fá ár. Hirðirinn hvarf í burtu og „sauð*ir* hjarðarinnar tvístruðust“.

*Þjóðminningarfélag.* Svo vil eg nefna félag það, sem gekst fyrir að halda hér Íslendingadag eða þjóðminningardag 2. ágúst. Það byrjaði á því árið 1897, og íslenzk þjóðhátíð haldin árlega í 6 ár, og þótti öllum, sem þær samkomur sóttu hin mesta skemtun að. En þá fór eins og svo oft vill verða, að óvinurinn kom, og sáði illgresi á meðal hveitisins í þenna þjóðminningar-akur vorn. Sýkti það félagið og lamaði krafta þess, og fór það svo, eftir litla stund „veg allrar veraldar“.

*Lestrarfélag.* Um það bil sem þjóðminningarfélagið varð til, máske ári síðar, var hér stofnað lestrarfélag og það lifir enn, þó bæði sé það fátækt og fáliðað. Það á eitthvað á annað hundrað bækur, allar islenzkar.

*Ýmislegt.* Eg hafði í hyggju, að rita sérstakan þátt um ýmsa merka viðburði, sem komið hefðu fyrir á meðal Íslendinga hér í Utah, bæði á ferðalaginu hingað vestur, og eins síðan að hingað var komið. En þegar eg fór að fletta öllum þaraðlútandi blöðum sá eg að þar var ekki um auðugan garð að grésja. Líf okkar hér í Utah, hefir ekki verið æfintýra ríkt; flest alt hefir gengið svona daginn og veginn. Öllum gekk ferðin hingað vel og slysalaust, og fáir munu þeir vera, sem hafa iðrað eftir bústaðaskiftin. Ráðvendni, iðjusemi, sparsemi og löghlýðni hafa haldist í hendur. Smá skeinur tel eg ekki með sárum, eða smá yfirsjónir með syndum, allra helzt, þar sem hið góða sýnist yfirgnæfa svo margfaldlega.

Um trúarbrögð Mormóna verður hér ekkert sagt. En í sambandi við þau, og sem beina afleiðing, finst mér ekki nema rétt, að geta þeirra sérstaklega, sem sendir hafa verið til Íslands, af kirkju Mormóna í trúboðs erindagerðum, þó ekki viti eg ártölin nær þeir fóru, og eru nöfn þeirra sem fylgir: Þórarinn Hafliðason, Guðmundur Guðmundsson, Loftur Jónsson, Magnús Bjarnason, Þórður Diðriksson, Samúel Bjarnason, Jón Eyvindsson, Jakob B. Jónsson, Pétur Valgarðsson, Gísli Einarsson, Eiríkur Ólafsson,

Einar Eiríksson, Halldór B. Jónsson, Einar Jónsson, Þórarinn Bjarnason, Halldór Jónsson, Jón Jóhannesson, Loftur Gíslason og Jón Sveinsson. Er víst flestra þessara manna getið hér að framan utan herra Jóns Jóhannessonar; um hann og ætt hans veit eg ekkert. Hann hefir og líka lengst af búið í Alberta í Canada.

*Framtíðarhorfur.* Eins og hér að framan er ávikið, líður flestum Íslendingum hér heldur vel, og útlitið með framtíðina er eins gott og hægt er að búast við, eftir öllum ástæðum, Það hefir enginn innflutningur átt sér stað á meðal vor, svo teljandi sé, síðast liðin 20 ár. — Þar af leiðir, að tölu hinna íslenzku Íslendinga hér, fækkar einlægt. Og útlit er helzt fyrir, að íslenzk tunga muni líða hér undir lok með okkur þeim eldri. Það sem eg hef fyrir mér með þetta, er dagleg sjón og reynsla. Íslendingar þeir sem hér búa nú, eru komnir í þriðja ættlið, þegar talað er um þá alla sem Íslendinga. Fyrsti liðurinn, þeir elztu, sem fæddir eru á Íslandi, kunna náttúrlega ísl. þolanlega og halda henni við Annar liðurinn, börn vor, skilja talsvert í henni, en fá af þeim geta talað hana vel, vilja heldur tala ensku, og gera það i flestum tilfellum. Þriðji liðurinn, barna-börn vor, sem nú óðum fjölga og koma til sögunnar, skilja hvorki né tala íslenzku, og af þv dreg eg það, að íslenzk tunga hverfi hér með eldri kynslóðinni, en við því verður ekki gert. Einasta meðalið til viðhalds tungu vorrar, væri nokkurn veginn stöðugur innflutningur frá gamla föðurlandinu.

*Niðurlag.* Þá hef eg farið yfir, öll helztu atriðin, sem snerta sögu okkar Íslendinga í Utha, og getið þar allra sem eg hefi haft tök á að fá upplýsingar um, Séu þeir til sem ekki er minst á þá kemur það til af því, að eg hefi ekki heyrt þeirra getið. Og þá ekki mín skuld. Eg hefi fylgt bókstaflega, sögusögnum núlifandi fólks, sem flest er búsett í Spanish Fork. Lengra varð ekki komist.

Bið eg svo alla sem lesa þetta, en sérstaklega þá sem hlut eiga að máli, að lifa í eilífum friði.



## *GUÐBRANDUR ERLENDSSON.*

---

Það var á nýári 1898 að eg veiktist. Afleiðingin varð sú, að eg var við rúmið fram á vor; sjúknaður minn var þess kyns að meiri líkur voru til, að hann hefði dauðan í för með sér. Fór eg þá að hugsa að nú einmitt væri tækifæri fyrir mig að skrifa æfisögu mína, og hvað gaman það væri fyrir börnin mín, og afkomendur þeirra, að sjá eitthvað eftir mig ritað. Nú með því að eg er einn af þeim sem man snemma eftir mér, og hef heldur gott minni, kom eg hugsun minni í framkvæmd. Æfisöguna hef eg ætlað mér að fá sérprentaða, þarafleiðandi mun eg verða sem fáorðastur um æfiatriði mín í bálki þessum, sem eg sendi sögusafni Vestur-Íslendinga.

Eg er fæddur í Kirkjubólsseli í Stöðvarfirði, 28. júní 1845. Foreldrar mínir voru heiðurshjónin Erlendur og Guðný. Faðir hans Ásmundur Björnsson frá Geldingi í Breiðdal, kona Ásmundar hét Þuríður. Systir mín Helga fædd á Bakkagerði í júní 1850, móðir okkar Guðný, dóttir Brynjólfs hreppstjóra á Hlið í Lóni; hans faðir Eiríkur prestur að Hofi í Alftafirði, hans faðir Rafnkell prestur að Stafafelli; kona Brynjólfs Þórunn Jónsdóttir prests Jónssonar að Kálfafelli í Fljótshverfi, kona hans Guðný Jónsdóttir prófasts Steingrímssonar. Eg var tæpra fimm ára, þegar faðir minn druknaði í Berufirðinum ásamt Þorsteini bróðir sínum, Ingveldi móðursystir minni, og vinnumanni Þorsteins. Sumarið 1851 í júlí giftist móðir mín Jóni Guðmundssyni frá Berufirði. Hans móðir Þórdís systir merkisbóndans Stigs á Ásunnastöðum í Breiðdal. Stigur var föðurafi herra Stigs Thorvaldssonar að Akra, N.D. Eftir tæpa eins árs ástúðlega sambúð þeirra hjóna druknaði hann fyrir Gvendarneslandi ásamt móður sinni, vinnumanni sínum,

Erlendi. Hann var móðurbróðir Þorsteins Ásmundssonar, sem er einn af frumbyggjum þessa bygðarlags, og Erlendur frá Streiti, giftur og búandi maður. Þá var Guðmundur orðinn karlægur, dó fjórum árum síðar. Þegar systir mín var þriggja missira gömul var hún tekin til



*GUÐBRANDUR ERLENDSSON*
*og kona hans*
*SIGRÍÐUR INGIBJÖRG HÁVARÐARDÓTTIR*

fósturs af heiðurshjónunum Guðmundi Magnússyni og Jórunni Brynjólfsdóttir í Hnefilsdal. Vorið 1856 brá móðir mín búi, fór vinnukona til madömu Kristínar Snorradóttir á Skriðu í Breiðadal, þá orðin ekkja eftir Högna járnsmið; eg fylgdist með móður minni, sem vikadrengur. Þar dvöldum við eitt ár, og leið frammúrskarandi vel.

Okkur Snorra, sem var elstur af börnum hennar, samdi vel, og urðum góðir vinir; þar lærði eg talsvert á skíðum, sem síðar kom mér að góðu haldi. Móðir mín réði okkur að Berufirði til prestsins Péturs Jónssonar. Nokkru síðar fékk hún sín vistarráð eftir gefin, fyrir tilstilli ömmu minnar Þórunnar í Hnefilsdal, og flutti þangað vorið 1857, en nokkur tregða varð á um uppgjöf á mínum vistar ráðum, lyktaði það með því, að eg með fataböggul minn undir hendinni, gekk suðuryfir Berufjarðarskarð. Þungt var mér þá í huga, nýbúinn að kveðja mína elskuðu móðir, og sjá hvað hún tók sér nærri að skilja við mig, en í öruggu trausti á guðs handleiðslu, í sambandi við framtíðarvonina, tókst mér að dylja hugsanir mínar, þegar eg kom að Berufirði, svo eg held enginn hafi séð á mér hrygðarsvip. Komu minni þar var vel fagnað, svo eg gat ekki annað en gleymt hörmum mínum. Í Berufirði var eg eitt ár. Séra Pétur hafði sótt um Valþjófsstað, og honum hann veittur, svo vorið 1858 fluttist hann þangað. Séra Pétur og kona hans frú Anna, breyttu við mig eins og sín eigin börn. Stephan, sem síðar varð prestur að Desjarmýri og þarnæst Hjaltastað, var yngstur þeirra barna; líkt var um aldur okkar. Svo var kært með okkur að aldrei kom til ágreinings, það sem annar stakk uppá samþykti hinn. Tvo vetur var mér sýnd sú góðvild að lesa með honum, nam eg þá dönsku, reikning, landafræði, mannkynssögu og nokkuð í réttritun. Björn bróðir hans þáverandi alþingismaður, eða litlu síðar, var kennari okkar; hann var mesta lipurmenni. Stór var hann og sterkur, sem hann átti kyn til, eftir því glíminn, sundmaður góður. Á þeim árum tíðkuðust allmikið glímur í dalnum. Enginn ósvinna þótti það að bjóða ungum mönnum, sem á bæ komu, í glímu, og seinustu vetur mína í Fljótsdalnum voru almennir glímufundir. Árið 1870 í júní, gifti séra Pétur okkur Sigríði Ingibjörgu, sem þá hafði dvalið eitt ár á Valþjófsstað; faðir hennar var Hávarður, bóndi á Gaukstöðum, hans faðir Magnús, bóndi í Hnefilsdal, Guðmundssonar Árnasonar, Pálssonar frá Glúmstöðum í Fljótsdal. Kona Magnúsar var Sigríður Jónsdóttir bónda á Vaðbrekku, Andréssonar. Móðir Sigríðar Ingibjargar, Hallfríður Pétursdóttir, bónda á

Hákonarstöðum, hún var systir Péturs Jökuls, föður Péturs Jökuls í Minneota, Minnesota. Vorið 1891 fluttumst við Sigríður mín að Gaukstöðum, þar bjuggum við fjögur ár, félagsbúi við tengdaforeldra mína og búnaðist vel. Svo féll mér það vel, að helzt hefði eg kosið að halda þar áfram búskap, en fé okkar hafði fjölgað svo á þessum árum, að Gaukstaðir gátu ekki til lengdar framleitt svo margt fé, því síður fleira. Eg leitaði fyrir mér, að fá jörð til ábúðar, en þær láu ekki á lausu á þeim árum, í Norðurmúlasýslu. Í Fljótsdalinn vildi eg helzt komast, fór því að finna minn kæra séra Pétur, en þegar mér varð kunnugt, að hann gat ekkert fyrir mig gjört í þeim sökum, tjáði eg honum hvað mér hefði í hug komið ef ekki fengi jörð til ábúðar, þá að reyna lukku mína, fyrir vestan haf, hann var því ekkert mótfallinn, spáði vel fyrir mér. Eg seldi svo bústöð mína og lifandi pening vorið 1875. Þann vetur var eldur uppi í Dyngjufjöllum, og vall úr þeim hraunflóð, langt út á Mývatnsöræfi. Á annan í páskum gusu þau, barst þá með vestan vindinum aska austur um land alt til sjávar. Nokkrir hugðu þá á útflutning, en fengu ekki selt. Um dvöl mína á Gaukstöðum, er það að segja að aldrei hefir mér liðið betur en þann tíma, sem eg þar dvaldi. Það sannaðist ekki þar:— "Köld er mága ástin" Vöruskip kom um miðjan apríl, á Vopnafirði, með því pantaði eg far til Kaupmannahafnar. Fám dögum áður skipið sigldi, fylgdi tengdafaðir minn okkur til Vopnafjarðar, við lögðum til Smjörvatnsheiðar, að kvöldi 26. apríl; vorum svo lánsöm, að logn var á um nóttina en frost nokkurt.

Hestum hélt að mestu uppi, svo ferðin sóttist allvel. Þeir sem ráðist höfðu til samferða með mér komu á líkum tíma í kaupstaðinn og við, og skal hér greind nöfn þeirra: Sigurjón Svanlaugsson, kona hans Elisabet Guðmundsdóttir og ung dóttir þeirra Elisabet; þau búa nú í Marshall, Minnesota. Ásgrímur Guðmundsson, hann býr nú í Minneota. Guðjón nokkur Jónsson úr Vopnafirði, við Sigríður mín með þrjár stúlkur okkar, Önnu, Guðnýu, Hallfríði og systir mín Helga. Skipið sem við tókum far með til Hafnar hét Hjálmar, skipstjóri Sivertsen. Fargjald til Hafnar var þrjátíu ríkisdalir fyrir fullorðinn, hálfu

minna fyrir börn á fimta ári. Það lagði út frá Vopnafirði síðdegis 30. apríl, hrepti mótvind alla leið til Jótlandsskaga, þá breyttist vindurinn í vil, suður fyrir Anholt, þá rann á sunnan vindur, samt náðum við eftir tólf daga ferð til Kaupmannahafar. Skipstjóri Sívertsen, sagði Hjálmar það bezta skip sem hann hefði stýrt, þau fjörutíu ár sem hann var búinn að vera við sjómensku. Herra Sivertssen reyndist okkur mæta vel, viðurgjörningur allar á skipi hans ágætur. Hann var okkur hjálplegur með skifti á peningum og kaup á farbréfum, sem síðar skal minst. Ekki skildi hann við okkur, fyrr en við gengum á gufuskipið, sem flutti okkur til Hull. Skipsnafninu hefi eg gleymt. Frá Hull fórum við með járnbrautinni til Glasgow, þar gistum við á gistihúsi sem danskur maður hélt, nefndi sig Jakobsen. Að morgni var lagt útá hið mikla Atlantshaf, á Anchorlínu skipinu Sidonia (Glasgow). Það var bæði mannflutninga og vöruskip, varð að koma við í Halifax og leggja þar upp vörur. Farþegar voru norskir, svenskir og tvær stúlkur danskar, þær höfðu farbréf til St. Johns, New Foundland. Að við Íslendingarnir tókum farbréf þangað, orsakaðist af ókunnleika hér fyrir vestan haf, vorum í efa hvert stefna skyldi, vorum samt helzt að hugsa um að setjast að í New Brunswick, og dvelja þar þangað til þeir af löndum okkar, sem á undan okkur voru farnir, hingað til lands, færu að draga sig saman, og mynda nýlendu.' Eg tjáði mínum kæra Sívertsen þessa ráðagjörð okkar, honum féll hún vel, og ótilkvaddur skrifaði hann vin sínum í St. Johns, og beiddi hann að gefa okkur leiðbeiningu. Honum fórst vel í því, sem öðru, okkur til handa. Skipsrúm á Sidonia (Glasgow), var ekki vel gott, öllum giftum mönnum, með konur sínar og börn, var skipað rúm í framstafni skipsins, var ekki laust við þegar sjóar gengu framan yfir skipið, að ofan í sængðurnar drypi að mun, eða svo reyndist það, þar sem eg svaf, með konu mína og börn, samt var ekki orð á því gjörandi, utan eina nótt, þá gengu sjóarnir stöðugt framan yfir skipið. Spotti hékk niður úr dekkinu, honum vafði eg um hönd mér, og sem gefur að skilja, lá fremstur í sænginni, með því móti gat eg varist

því að nokkurt okkar dytti úr rúminu, einn maður hentist úr rúmi sínu, og alt, sem losnað gat, hentist hvað innan um annað, þiljanna á milli. Ekki vissi eg til, að nokkur á skipinu væri að mun veikur af sjóveiki, nema önnur danska stúlkan, Kristín. Vistir voru af mjög skornum skamti, sem verst var, að fyrir kom, að þær voru illa tilreiddar. Hefði eg kunnað ensku, mundi eg hafa komist eftir hvar fiskur lá undir steini, því einlægt fanst mér, að umsjónarmanni væri ekki um að kenna, heldur þeim sem framreiddi vistirnar. Svo mikið er víst, eftir heita orðasennu milli umsjónarmanns og farþegja sem voru á sama farrými og eg, tók hann unglings mann þann, og dustaði óvægilega. Eftir þá ráðningu, mátti vel við una. Eftir 12 daga ferð, lenti skipið í Halifax. Ekki var álitlegt þar utan með firðinum, alstaðar skein í hvíta kalksteinana, inn á milli greni og furu trjánna; eg hugsaði, hér er þó sannarlega leiðinlegt útsýni, og hér skal eg ekki á land stíga. Hér rættist það sem hinn spaki Salómon segir. "Hlutkesti er varpað í barmi mínum, en allir úrskurðir koma frá drotni." Skipið hafði lagt upp vörur, og tekið aðrar í staðinn. Svartur kolamökkurinn gaus upp úr reykháfnum, sem viss bending þess, að burtferð væri í nánd. Dr. Clay, sem eitthvað var riðinn við innflutningsmál Nova Scotia, kom fram á skip, með honum norskur bóndi sem túlkur. Í flýti miklum sagði hann mér, að hópur sá, Íslendinga sem haustið 1874 hefði staðnæmst í Ontario, væru nú að flytja til Nova Scotia, og væru þá þegar allmargar fjölskyldur þangað fluttar, hinna væri og þangað von, þegar þeir hefðu efni til að kosta ferðina. Hópurinn sem kominn var, væri nú byrjaður að leggja veg gegnum fyrirhugaða nýlendu þeirra. Stjórnin gæfi hverjum búanda 160 ekrur af landi, léti hreinsa eina ekru, og byggja bjálkahús 18x20. Flutning allan nýbyggarans, annaðist hún, eitt ár. Í skógum voru Moosdýr, silungur í vötnum og landið þótt erfitt væri í fyrstu, mjög gott. Nú væri tilboð sitt, að eg tafarlaust færi með kvöld eimreiðinni til Shupenacade, þar yrði maður til staðins, að keyra mig upp til Musquodoboit hvar landar hefðu aðsetur sitt, svo eg gæti haft tal af þeim. Þeir sem með mér voru á skipinu, skyldu á meðan

eg væri á þessum leiðangri, vel haldnir á gistihúsi í bænum Halifax, en svo þegar eg kæmi aftur, skyldum við fá gefins farbréf tli St. Johns, sömuleiðis þyrfti eg ekki að borga eitt cent á ferð minni, og heldur ekki fyrir það, sem við dvöldum á gistihúsinu. Þannig lauk hann máli sínu. Mér kom í hug bæklingur lítill, sem eg hafði lesið, og höfundurinn segir, þar sem hann er að telja upp kosti Nova Scotia, og líkir henni við fagra litmynd, með ljótri umgjörð, að líklegt sé að sú lýsing hafi eitthvað við að styðjast. Eg hafði nú sé part af umgjörðinni, víst væri gaman að sjá innfyrir hana. Tjáði samferðamönnum mínum hvað væri uppá tening, þótti þeim sem mér, drengilegt tilboð stjórnarinnar, fýsilegt eg fyndi landa, og sæi mig dálítið um í þessu nýja landi. Þetta voru tildrögin til landtöku okkar þar. Meg kvöldlestinni fór eg til Supenacade, þar mætti mér McDonald þingmaður þeirra Musquodoboit, og umsjónar maður íslendinga, hann keyrði mig heim á búgarð sinn, sem voru tólf mílur. Allir voru þar komnir í fasta svefn, nema Mrs. McDonald, sem beið með tilreiddan kvöldverð, sem hún í skyndi bar okkur; að honum loknum var mér vísað til sængur, og svaf eg á dag fram. Með pósti fékk eg keyrslu til landa minna í Musquodoboit. Af þeim hafði eg tal, þar til póstur kom aftur og tók mig til Supenacade. Hann benti mér á hótel og þóttist eg skylja, þar ætlaði hann mér að vera, til þess eimreiðin kæmi að vestan. Eg tók mér sæti, þar sem eg gat séð, nær lestin kæmi, og fór nú í næði að hugsa um það, að tæpast væri nú 24 klukkutímar, síðan eg hefði fyllilega meint að stíga ekki á land í N. S. Nú væri eg fastráðinn í að gjöra það að framtíðar landi mínu; mér fanst eg aldrei hafa verið svona fljótur að láta af fyrirætlan minni, og í sambandi við þetta, var eg að hugsa um, hvað mér kæmi vel fyrir sjónir það sem eg hafði séð af landi því, er eg keyrði um, enn ekki gat eg sannfærst um neina sérlega fegurð þess, minstakosti hafði eg séð fagrari sveitir á íslandi, eftir því sem mér fanst. Eg sá þegar lestin kom, og var ekki seinn á mér, að komast í hana, að litlum tíma liðnum var eg kominn í hótelið til fólks míns, því fanst sem það haft heimt mig úr helju, því geðjaðist illa að þessu ferðalagi mínu, af því eg kunni

ekkert í ensku. Næsta dag komumst við til stóra timburhússins, sem kallað var Íslendingahús, þá var 1. maí.

Um landtöku Íslendinga í Nova Scotia hefir skrifað og látið prenta Sigurður J. Jóhannesson, einnig minnist J. Magnús Bjarnarson nokkuð á það í skáldsögunni Eiríkur Hannson, og seinast í Lögbergi Björn Walterson, þarf þar engu við að bæta. Svo mátti kalla, eftir að eignarbréf voru fengin fyrir löndum okkar, færi hver sem búinn var. Gripi gátum við selt fyrir hálfvirði, og flest allir hey sín. Eg seldi ræktað hey, veturinn áður en eg fór á níutíu dollara, með landsöluna gekk alt tregara, samt tókst mér að selja það á hundrað dollara, en ekki hef eg af þeim séð nema fjörutíu og tvo dollara, fimtíu cent. Í Nova Scotia dvaldi eg sex ár og þrjá mánuði. Þar bættust við börn okkar Hávarður og Helga. Í ágúst 1881 tókum við okkur upp, ásamt fleiri nágrönnum okkar, og fluttumst til Duluth; nokkrir af þeim fóru til Winnipeg. Þar skyldi með okkur Helgu systir minni, hún var þá gift Stefáni Brynjólfssyni, bróðir Brynjólfs Brynjólfssonar frá Skeggstöðum í Húnavatnssýslu, þau héldu áfram til Winnipeg, síðar tóku þau land fyrir suðvestan Garðar, dvöldu þar nokkur ár, seldu svo landið, fluttu til Oregon, settust að í smábæ Sheridan, þar dó Stefán fyrir nokkrum árum síðan, en systir mín er hjá dætrum þeirra í Portland; báðar eru þær giftar skozkum mönnum, þær heita Jónína og Erlína. Í Duluth dvöldum við tæplega eitt ár; að mörgu leyti féll mér þar vel, hafði sem oftast vinnu við smíðar, sem mér í raun og veru hefir æfinlega fallið betur, en landbúskapur og líklegt er eg hefði ekki farið þaðan svo fljótt, hefðum við ekki orðið að sæta þeim þungu kjörum að sjá á bak elztu dóttir okkar Önnu, sem var á tíunda ári, að öllu leyti vel gefin. Tuttugu daga lá hún sárþjáð af Scarletina, og gátu læknar ekkert að gjört. Svo gekk missir hennar nærri mér, að á tímabili fanst mér eg mundi ekki geta borið hann, og hefði það ekki verið fyrir litlu börnin mín, sem voru svo elsk að mér, að hvert kepptist við annað, mér að fagna þegar heim kom, frá vinnu minni, og ástríki minnar elskuðu konu, mundi eg hafa fallið í valinn. Þetta gaf mér

laungun til að lifa, en úr bænum þráði eg að fara, eins fljótt og tækifæri gæfist.

Sjötta júlí 1882 fluttum við til Pembina, þar hugði eg að dvelja, þar til eg sæi mér fært til að ná rétti á landi, og byrja búskap. Þegar til Pembina kom, átti eg í vasanum $100.25, með þeim borgaði eg fyrir konu mína og börnin á íslenzku gistihúsi, en sjálfur gekk eg suður á Pembina sléttur, að sjá mína kæru vini Mr. og Mrs. Sigmundur Jónsson frá Hjarðarhaga á Jökuldal. Þau hafði eg ekki séð síðan eg fór af Íslandi, og var þar sannur fagnaðarfundur. Svo átti eg vini þar sunnar á sléttunni Mr. og Mrs. Sigurð Jónsson frá Egilstöðum í Fljótsdal, og hafði eg þau ekki séð síðan eg fór úr dalnum; en nú var ekki tími til að leika sér, eg þurfti að fá mér vinnu, hennar þurfti ekki lengi að leita, hún svo gott sem barst uppí hendurnar á mér. Vinur minn Sigmundur sótti konu mína og börn, og tók þau heim með sér. Í Pembina vann eg við smíðar framm í nóvember, á því tímabili, var eg lengstum að vist með Ólafi Þorsteinssyni, og konu hans Elínu. Mæta vel féll mér við þau hjón, og meðan eg átti ferðir til Pembina, gleymdi eg aldrei að heimsækja þau. Í nóvember fluttum við frá Sigmundi og Sophíu konu hans, og til Sigurðar og Petrínu, með því þau höfðu meira húsrúm. Sigmundur mun þá hafa verið kominn fyrir hálfu öðru ári frá Nýja Íslandi, þá átti hann tvær kýr, gaf mér aðra, og má af því marka hversu mikill höfðingi hann var; litlu síðar fluttu þau sóma hjón, suður í Garðar bygð, sem kunnugt er, komust þar brátt í góð efni. Við Sigurður höfðum eitt skeið, verið samtíðar á Valþjófsstað, vorum þá oft í lestaferðum, og hafði eg æfinlega hlakkað til að hafa hann með mér; nú höfðu örlögin aftur leitt okkur saman, báðum til mikillar ánægju, og helst hefðum við nú kosið að vera saman, en kringumstæðurnar gjörðu það ómögulegt. Eg hafði í ágúst tekið rétt á landi í Hallson bygð, þurfti því að sinna. Um miðjan janúar 1883 kvöddum við okkar kæru velgjörða hjón og fluttumst í þessa bygð, settumst að hjá Magnúsi Halldórssyni og Ólöfu konu hans, hjá þeim heiðurshjónum dvöldum við til fyrsta apríl, að við fluttum á þetta land hvar við nú erum búin að dvelja 31 ár.

Þegar eg nú lít yfir æfiferil minn, er margs að minnast, margs að sakna, en á sama tíma mikið að þakka. Guð hefir gefið mér margan góðan og tryggan vin, góða og mikilhæfa konu, með henni góð og velgefin börn. Fimm þeirra eru farin á undan okkur, yfir hafið mikla, inná ódauðleikans landið. Sex eru á lífi. Hallfríður gift Tryggva Dínusson búsettum í Svoldarbygð. Helga gift Einari Jónsson Snædal, timbursölumanni í Cheynne Wells, Colorado. Guðný Stefanía gift Einari Ásmundsson til heimilis hjá mér. Pálína Sophia á St. Michaels Hospital, Grand Forks, að nema hjúkrunarfræði; áður var hún á nunnuskóla í sama bæ.Nú lifandi systur hennar, nutu þeirrar mentunar, sem á sveitarskólum er kend. Hávarður hefir aflað sér talsverðrar mentunar, hann er fjölhæfur, og góður smiður. Pétur er yngstur systkinanna, hann hefir verið á University N. Dak. Býst við að ljúka þar námi sínu.

Ritað í júní, 1914.

GUÐBRANDUR ERLENDSSON

# Helztu viðburðir og mannalát meðal Ísl. í Vesturheimi.

---

23. apríl var Dr. Þorbergur Thorvaldsson skipaður prófessor í efnafræði við háskólann í Saskatchewan.

---

Íslendingar útskrifaðir frá Manitoba háskólanum 1914:

*Sigrún Ingibjörg Gunnlaugsdóttir*, Helgasonar og konu hans Helgu Sigurðardóttur (af Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu), til heimilis í Árnesbygð í Nýja-Íslandi.

*Steinn O. Thompson*, sonur Sveins Tómassonar (Borgfirðingur) og Sigurlaugar Steinsdóttur (frá Vík í Héðinsfirði í Eyjafjarðars.), til heimilis í Selkirk.

*Kristján Jónsson Austman*, sonur Jóns Ólafssonar ritstjóra í Reykjavík og Þóru Þorvarðardóttur, síðar gift Jóni Austman, er nú búa í Winnipeg.

*Guðmundur Olafur Thorsteinsson*, sonur Vigfúsar járnsm. Þorsteinssonar og konu hans Guðríðar Guðmundsdóttur (af Akranesi), sem búsett eru við Beaver í Manitoba.

*Jón Einarsson*, sonur Jóhannesar Einarssonar kaupmanns og Sigurlaugar Þorsteinsdóttur (úr Höfðahverfi við Eyjafjörð) til heimilis við Lögberg-pósthús í Sask.

*Sigfús J. Sigfússon*, sonur Jóns kaupmnnns Sigfússonar við Lundar, Man. og Önnu Kristjánsdóttir konu hans.

*Helgi K. Helgason*, sonur Kristjáns bónda Helgasonar og konu hans Rósu Jóhannesdóttur í Foam Lake-bygð í Sask., (bæði úr Eyjafirði).

---

28. júní 1914 vígð kirkja Gimlisafnaðar af forseta hins ev. lút. kirkjufélags Isl. í Vesturheimi, var hún bygð 1907, 75 fet á lengd og 32 fet á breidd. Verð hennar með öllu tilheyrandi um $3.800.

---

23. júní 1914 var Ólafur S. Thorgeirsson, útgefandi þessa almanaks, skipaður konsúll í Winnipeg, Manitoba af utanríkismálaráðgjafa danska ríkisins.

---

10. júlí 1914. Við kosningar til fylkisþings Manitoba náðu þessir Íslendingar kosningu: Thomas H. Johnson endurkosinn í einu Winnipeg-kjördæminu og Sveinn Thorvaldsson, kaupmaður við Islendingafljót í Gimli-kjördæminu.

---

2. ágúst var kirkja Tjaldbúðarsafnaðar í Winnipeg vígð af síra Friðrik J. Bergmann, presti safnaðarins með aðstoð síra Magnúsar Jónssonar á Garðar, N.-Dakota og síra Jóns Helgasonar, prófessors í Reykjavík, er hingað kom beint til að aðstoða við þá athöfn. Kirkjan er að breidd 60 fet og að lengd 90 fet og er tilkomumest og veglegust kirkja, sem Islendingar hafa enn reist. Og mun kosta með öllu tilheyrandi $60,000.

———

2. ágúst var kirkja Lundar-safnaðar í Man. vígð af forseta kirkjufélagsins, síra Birni B. Jónssyni. Kirkjan er 36 fet á lengd og 32 fet á breidd og kór 12x14 fet. Kostaði $3,000.

———

30. ágúst vígð kirkja hins ev. lúterska safnaðar í Blaine, Wash. af síra Hirti J. Leó, með aðstoð síra Jónasar A Sigurðssonar og Sig. Ólafssonar cand. theol. Stærð 50 fet á lengd og 30 á breidd. Söfnuðurinn virðir hana uppkomna á $1,200.

———

Haustið 1914 útskrifaðist sem lögfræðingur við lagaprófin í Saskatchewan-fylki, *Walter Líndal*, með beztu einkunn. Frá háskóla Manitoba útskrifaðist hann 1911 (sjá almanakið fyrir 1912). Stundar hann lögmannsstörf í borginni Saskatoon í Sask.

———

Í nóv. 1914 var Gunnar B. Björnsson ritstjóri og eigandi blaðsins Minneota Mascot, endurkosinn á ríkisþing Minnesotaríkis. Sömuleiðis Stefán Westdal, lögmaður kosinn þingmaður til neðri málstofu ríkisþings N.-Dakota.

———

Í nóv. 1913 var Jósep Þórarinn Thorson veitt inntaka í Lögfræðingafélag Manitobafylkis. Sá hinn sami sem um er getið í þessu almanaki 1911 að hlaut Cecel Rhodes-námstyrkinn og fór til Oxford-háskólans og lauk lögfræðisprófi eftir 3 ár. Mun vera fyrsti Islendingur er frá Oxford hefir útskrifast.

———

12. des. 1914 féll hæstaréttardómur í málinu út af kirkjueign Þingvallasafnaðar í N.-Dakota, sem hafið var út af trúmáladeilunni í kirkjufélaginu. Undirréttardómurinn sem var á móti söfnuðinum og kirkjufélaginu í vil, var af hæstarétti numinn úr gildi með þrem dómurum móti tveimur. Svo meiri hluti safnaðarins heldur kirkjueigninni og hefir unnið málið.

---

# MANNALÁT.

Í marz 1913. Kristín Jónsdóttir frá Fögruhlíð, Norður-Múlasýslu kona Jóns Þorkelssonar frá Hnitbjörgum, búsett í Alftavatnsbygð; rúmlega fimtug.

30. júlí 1913: Friðrik Jóhannesson að Akra, N. D.; fæddur í Garði í Fnjóskadal, 81 árs.

14. okt. 1913: Ólafur Jónsson, Gíslasonar við Winnipegosis, 27 ára.

15. okt. 1913: Guðrún Kristjánsdóttir á heimili Olafs Pálssonar, Blaine, Wash., ekkja eftir Friðbjörn Stefánsson, bjuggu um nokkur ár í Mikley, N.-Íslandi (ættuð úr Breiðafjarðardölum), 84 ára.

14. nóv. 1913: Árni Oddsson frá Hringsdal við Eyjafjörð, búandi að Gimli, Nýja-Íslandi, 82 ára.

16. nóv. 1913: Helga Vilhjálmsdóttir, til heimilis hjá dóttur sinni Guðrúnu og manni hennar Þórði Finnsyni, bónda í Ísl.-bygðinni norður af Milton, N.-Dak. (ættuð frá Firði í Mjóafirði í S.-Múlas., voru foreidrar hennar Vilh. Vilhjálmsson og Guðrún Konráðsdóttir er þar bjuggu) ekkja var hún Ólafs Guttormssonar og bjuggu þau síðast að Austdal í Seyðisfirði, 90 ára gömul.

17. nóv. 1913: Þorsteinn Þorsteinsson við Maidstone í Sask.,(Austfirðingur), rúmlega sjötugur.

4. des. 1913: Guðrún Valgerður Mikaelína Össurardóttir í Winnipeg, ekkja, Ingimundar Sæmundssonar (úr Patreksfirði), 60 ára

6. des. 1913: Hallgrímur Iónsson, Jónssonar, (frá Ólafsey á Breiðafirði), til heimilis í Mouse River bygð í N.-Dak., (sjá landnámsögu þátt þeirrar bygðar í almanakinu fyrir 1913).

9. des 1913: Jón Gíslason Miðdal, bóndi við Hallson-pósthús í N.-Dak., (fæddur í Höll í Borgarfirði vestra); flutti hingað vestur 1888.

12. des. 1913: Björn Eyjólfsson, sonur Gísla bónda Eyjólfssonar og konu hans Þórunnar Einarsdóttur í Henselbygð, N.-D., 22 ára gamall.

16. des. 1913: Guðrún Halldórsdóttir, ekkja, til heimilis hjá dóttur sinni, Margrétu og eiginmanni hennar Jóni Markússyni í Winnipeg, (ættuð úr Skagafirði), 90 ára gömul.

17. des. 1913: Seselja Jónsdóttir, Þorvarðarsonar frá Papey, hjá syni sínum Kjartan Edwards í Minnesota-nýl. Ekkja Edvarðs Þorleifssonar (frá Eskifirði, d. 1885), 68 ára gömul.

19. des. 1913: Guðmundur Erlendsson að Gimli, 30 ára.

22. des. 1913: Anna Bjarnadóttir, lézt að heimili dóttur sinnar Kristínar konu Sigurðar J. Wídal á Fitjum í Breiðuvík, Nýja-Íslandi. Ekkja eftir Grím bónda er lengi bjó að Valdárseli í Víðidal í Húnavatnssýslu, 94 ára gömul.

21. des. 1913: Jón Hannesson bóndi við Vestfold, Man., (ættaður úr Húnavatnssýslu).

21. Signý Pálsdóttir, kona Eyjólfs Eyjólfssonar (Olson) í Winnipeg frá Dagverðargerði í Hróarstungu á Fljótsdalshéraði, og þaðan fluttu þau vestur um haf 1876, 65 ára.

## JANÚAR 1914.

5. Sveinn Arason, til heimilis á Mountain, N.-Dak., (ættaður úr Skagafirði), 84 ára.
9. Edward Christensen í Chicago, sonur Sigríðar Jónsdóttur frá Elliðavatni, systursonur Mrs. J. Th. Clemenz hér í borg, 35 ára
11. Sigurður Jóhannes til heimilis hjá foreldrum sínum Oddbirni Magnússyni og konu hans Guðbjargar Jónsdóttur í Winnipeg, 18 ára.
16. Jón S. Jóhannesson bóndi í Eyfordbygð, N.-Dak. Fæddur á Eystri-Brekkum á Langanesi, 32 ára gamall.
18. Jarðþrúður Eyjólfsdóttir, kona Finns Bjarnasonar bónda í Swan River-bygð í Man.
19. Jón Einarsson, bóndi við Íslendingafljót í Nýja-Íslandi (ættaður úr Reykholtsdal í Borgarf.; hét kona hans Guðríður Þorgrímsdóttir og fluttu hingað vestur 1888), 85 ára.
25. Magnús Johnson, Skaftfellingur í Winnipeg, 61 árs.
25. Oddur Jónsson frá Bræðrabrekku í Dalasýslu, búandi í N.-Dak. 63 ára.

## FEBRÚAR 1914.

1. Anna B. Oddsson, dóttir Bjarna Oddssonar söðlasmiðs frá Reyðarfirði og konu hans Sigríðar Pétursdóttur, 33 ára að aldri.
3. Oddrún Sigurðardóttir frá Jarðlaugsstöðum í Mýrasýslu, gift kona að Caliento, Man., 30 ára gömul.
13. Eiður Sigurbjörnsson í Selkirk, 22 ára.
13. Hallur Hallsson að Hóli við Íslendingafljót, fyr bóndi að Réttarholti í Skagafirði, 75 ára gamall.
15. Vilhjálmur Þorsteinsson, bóndi í Hallson-bygð í N.-Dak., um 50 ára.
16. Sigurborg Björgólfsdóttir, Brynjólfssonar frá Vopnafirði, 16 ára
18. Matthías Brandsson í Winnipeg, ættaður af Skógarströnd 47 ára gamall.
18. Hildur Halldórsdóttir í Winnipeg ekkja, tvígift, hét fyrri maður hennar Jón Sigfússon, dáinn á Íslandi, síðari Helgi Þorsteinsson. Bjuggu þau hjón um tangt skeið í Argyle-bygð. Kom hún ekkja frá Íslandi (úr Þingeyjarsýslu) og var með fyrstu landnemum í N.-Íslandi og giftist þar síðari manni sínum 1879; 73 ára gömul.
20. Snjólaug Jónsdóttir Einarssonar, dáin að heimili dóttur sinnar Mrs. Guðrúnar Johnson, South-Dak., (ættuð úr Skriðdal Suður-Múlasýslu), 88 ára.
20. Eyjólfur Eyjólfsson í Selkirk, Man., (fluttist hingað fyrir 11 árum frá Ökrum í Mýrasýslu), 47 ára

24. Lárus Ingvar Lárusson við Strattford í Californíu, (frá Ásgeirsá í Víðidal í Húnav.s.).

MARZ 1914.

3. Karólína Hansson í Winnipeg, systir Hannesar pósts, sem var í Reykjavík, um áttrœtt.
3. Jóhanna Kristbjörg Straumfjörð, seinni kona Ólafs Eggertssonar, til heimilis í Winnipeg, 29 ára.
6. Margrét Magnúsdóttir til heimilis hjá dóttur sinni, Sigríði og manni hennar Árna S. Jósefssyni í Minneota, Minn. Ekkja Jónasar Ólafssonar og bjuggu um eitt skeið að Bergstöðum í Þingeyjars., 78 ára.
6. Ingibjörg Jónsdóttir við Garðar N.-D., úr Eiðaþinghá, 45 ára.
7. Sigurveig Johnson, eiginkona J. W. Johnsons í Minneapolis, Stjúpdóttir Jóns Eyjólfssonar í Minneota, Minn., 27 ára.
10. Ólöf Fíllip í Mouse River, fædd á Kvíabekk í Ólafsfirði, 77 ára.
14. Helgi Jakobsson, bóndi í Geysisbygð í Nýja-Íslandi, frá Gróttum í Þverárhlíð, 57 ára.
14. Halldór Ólafur, sonur Páls Nordals í Portage la Prairie, Man., 19 ára.
15. Jórunn Elisa Pálmason, kona Haraldar E. Pálmasonar. Lést að heimili foreldra sinna, Stefáns kaupm. Sigurðssonar og Valgerðar konu hans að Hnausum, Nýja-Íslandi, 22 ára gömul.
17. Þuríður J. Þórarinsdóttir, ekkja Indriða Sigurðssonar við Amalía-pósthús í Sask.;höfðu þau hjón áður lengi búið við Mountain, N.-Dakota, 62 ára.
17. Freysteinn Jónsson, bóndi í Þingvallanýlendu, Sask., (fæddur á Gaulverjabæ í Árnessýslu 1848. Hét kona hans Kristín Eyjólfsdóttir frá Innri-Ásláksstöðum á Vatnsleysuströnd), 66 ára.
17. Þórunn Pétursdóttir, prests Jónssonar síðast á Valþjófsstað í Fljótsdalshéraði, kona Nikúlásar Jónssonar, (fluttu þau hjón af Seyðisfirði 1882 og námu land nálægt Hallson í N.-Dak. og bjuggu þar um mörg ár, en voru nú flutt til dóttur sinnar Önnu, konu W. H. Paulson þingmanns í Leslie, Sask., þar lést hún nálega 76 ára.
17. Kristján G. Schram til heimilis í Minneota, Minn., (ættaður úr Rangárvallasýslu); snikkari. Futti hingað vestur 1873 til Milwaukee og 1879 nam hann land í Lincoln-county í Minnesota og dvaldi þar síðan, 78 ára.
20. Daníel Jacob Laxdal, lögmaður og borgarstjóri í Cavalier, N. Dak., sonur Gríms Laxdal, bókbindara á Akureyri og konu hans Aldísar Jónasdóttir Bergmann, 48 ára.

Í marz 1914. Hólmfríður Bjarnadóttir, ekkja í Wlnnipeg, 76 ára.

APRÍL 1914.

3. Margrét Guðmundsdóttir, Björnsson frá Rauðholti í Hjaltastaðaþinghá, kona Jóns Björnssonar frá Borg í Skriðdal. Lést í Nýja-Íslandi, 72 ára að aldri.

4. Steinunn Jósefsdóttir, Kona Jósefs J. Jóhannessonar (Anderson í Winnipeg, 29 ára.
5. Ingibjörg Stefánsdóttir frá Mozart, Sask., ógift, 56 ára.
10. Pétur Jónsson í Calgary, fæddur á Húsabakka í Skagafirði 50 ára.
11. Einar Jónsson að heimili bróður síns Guðvalda við Elfros, Sask., fæddur í Sauðfellshaga í Axarfirði. 83 ára.
11. Magnús stúdent Armannsson, Bjarnarsonar, verzlunarstjóra frá Viðfirði í S.-Múlasýslu, 24 ára
19. Jóhann Hannibal Jóhannsson Scheldemose í Winnipegosisbygðinni. Kona hans hét Kristín Gunnlögsdóttir og bjuggu þau á Íslandi í Nýlendu á Höfðaströnd og þaðan fóru þau hingað árið 1883. 73 ára gamall.
23. Guðjón Erlendsson bóndi við Reykjavík-pósthús í Man., (fæddur á Skálholti í Biskupstungum. Fluttist hingað vestur fyrir 15 árum).
28. Þorsteinn Eyjólfsson, bóndi við Lundar, Man., rúmlega fimtugur; foreldrar hans voru Eyjólfur Kristjánsson og Lukka Gísladóttir (frá Breiðavaði í Eyðaþinghá í S.-Múlasýslu); voru þau með fyrstu landnemum í N.-Dakota-nýlendu, en eru nú látin.
30. Ingólfína Johnson kona Stefáns Tryggva Johnson í Winnipeg, 20 ára gömul.

John S. Johnson, Mountain, N.-Dakota, nálega fimtugur.

MAÍ 1914.

3. Ari Eggertsson Fjeldsted í Winnipeg, (úr Helgafellssveit í Snæfellssnessýslu. Ekkja hans heitir Ólöf Hannesdóttir), 74 ára.
23. Oddgeir, sonur Björns Jónssonar og konu hans Ólafar Stefánsdóttur er búa í Þingvallanýlendu í Sask., 19 ára.
29. Hallvarður Ólafsson í Masset, British Columbia, um fertugt.

JÚNÍ 1914.

2. Hjálmar Laxdal að Mountain, N.-Dakota, miðaldra maður.
2 Lára Mabel Johnson í Winnipeg, 14 ára
13. Sigríður Soffía Gunnarsdóttir, Einarssonar í Winnipeg, 30 ára.
17. Steinunn Stefanía Einarsdóttir, trésmiðs, (úr Reykjavík) 25 ára.
14. Margrét Gísladóttir, ekkja eftir Samúel Bjarnason í Spanish Fork, (sjá landnámssöguþátt Ísl. í Utah í þessu almanaki).
29. Friðbjörn Magnússon, sonur Páls bónda Magnússonar, og Guðnýjar Friðbjarnardóttur konu hans, nálægt Leslie, Sask., (af Akureyri). Rúmlega tvítugur.

Guðmundur Samúelsson til heimilis á Point Roberts, Wash. (ættaður úr Húnavatnssýslu; flutti hingað vestur fyrir 25 árum. Ekkja hans heitir Helga Bjarnadóttir úr Mýrasýslu).

JÚLÍ 1914.

5. Kristjana Olafsson til heimilis í Argyle-bygð, Man., 73 ára.

7. Guðrún Jónsdóttir, ekkja í Alftavatnsbygð, fædd í Hergilsey á Breiðafirði, 62 ára.
14. Vilfríður Björg Egilsdótttr frá Reykjavík. Dáin að Gimli, 21 árs
14. Runólfur Þorsteinsson Newland í Winnipeg, ættaður úr Mýras.
16. Guðlaugur Guðbrandsson í Pasadena, Californíu, sonur Guðbrandar Guðbrandssonar og Kristínar Bjarnadóttur er bjuggu á Leiðólfsstöðum í Laxárdal í Dalasýslu, 43 ára.
20. Kristín Eyjólfsdóttir, Churchbridge, Sask., ekkja Freysteins Jónssonar, dáinn 17. marz þ. á. 64 ára.
22. Rósa Magnúsdóttir,ekkja,til heimilis á Birkinesi við Gimli,74 ára
27. Haraldur Þorláksson til heimilis í Charlson í N.-Dakota. Foreldrar hans voru þau hjón Þorlákur G. Jónsson og Lovisa Henrietta Nielsen er lengst bjuggu á Stóru-Tjörnum í Ljósavatnsskarði. Ekkja Haraldar heitir María Sigurðardóttir Guðnasonar frá Ljósavatni, fluttu þau hingað til lands 1872; 66 ára.
28. Kristbjörg Jónsdóttir, Jónssonar prests Þorsteinssonar í Reykjahlíð og Jórunnar Jónsdóttir; fædd að Lundarbrekku í Þingeyjarsýslu 1864 til heimilis í Kandahar, Sask.
29. Jóhanna Bjarnadóttir Josephs, hjá Þórði syni sínum í Winnipeg 71 árs.
31. Guðrún Solveig Pálsson, gift Sigurbirni Pálssyni, fasteignasala í Winnipeg, 22 ára gömul.

ÁGÚST 1914.

3. Kristín Sigurðsson í Winnipeg, ættuð úr Rauðseyjum á Breiðafirði.
6. Sigurður Guðlaugsson á Melstað í Víðirnesbygð í N.-Íslandi (Húnvetningur). Fluttist til Canada 1874; 84 ára gamall.
9. Stefán Jónsson hjá syni sínum, Jóhanni Gunnlaugi, bónda við Kandahar í Sask., ekkja hans heitir Ingibjörg Jóhannsdóttir, (bæði ættuð úr Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu, en fluttu hingað frá Keflavík í Rípurhr. í Skagafirði 1883), 79 ára gamall.
11. Dómhildur Stefánsdóttir Johnson; nð heimili Armanns bróður síns að Mountain, N.-Dakota, 42 ára.
11. Magnús Johnson, bóndi nálægt bænum Adams.
11. Anna María Friðriksdóttir, til heimilis hjá dóttur sinni og tengdasyni J. G. Goodmundsson, kona Guðmundar Ólafssonar prests Guðmundssonar frá Hjaltabakka í Húnavatnssýlu,80 ára.
18. Guðríður S. Davíðsson, ekkja í Winnipeg, 86 ára.
19. Steingrímur Guðnason, til heimilis í Glenboro, Man., (ættaður úr Þingeyjarsýslu), 56 ára,
22. Thorbjörg Thorgeirsson í Winnipeg, (ættuð úr Miðfirði).
23. Þorsteinn Gíslason í bænum Gerald, Sask., sonur Gísla smiðs Þorsteinssonar frá Stokkahlöðum í Eyjafirði.
31. Guðrún Einarsson, ekkja í Arnesbygð, Man.
31. Jónas Einarsson, bóndi á Vatnsnesi í Arnesbygð, Man. Húnvetningur að ætt, 73 ára.

Guðmundur Skúlason við Mountain N.-Dakota, faðir Barða og Skúla lögmanna, (ættaður úr Skagafirði).

SEPTEMBER 1914.

3. Sesselja Jónsdóttir, kona Eggerts Kristjánssonar í Spanish Fork, Utah (sjá landnámssögu þátt Isl. í Utah í þessu almanaki)
7. Einar Eiríksson á heimili sonar síns Jóns bónda við Winnipeg-ósis í Man, Flutti til þessa lands fyrir 20 árum frá Fjallalækjarseli í Svalberðshrepp í N.-Þingeyjarsýslu, 70 ára.
19. Guðbjörg Jónsdóttir Holm til heimilis hjá dóttir sinni Kristínu og manni hennar John Hörgdal, búandi við Hallson N. Dak., ekkja eftir Hallgr. Hallgrímsson, dáinn fyrir tveim árum, bæði ættuð úr Skagafirði og fluttu til þessa lands 1876; 82 ára.
24. Jón Abrahamsson í Winnipeg, (ættaður úr Eyjafirði), 68 ára.
25. Olöf Magnúsdóttir, ekkja að Garðar, N.-Dakota, (ættuð af Suðurnesjum á Islandi), 71 árs.
27. Elín Pálmadóttir, kona Gunnars Guðmundssonar á Mountain, N.-Dakota, (ættuð af Höfðaströnd í Skagafjarðarsýslu) fluttu tii þessa lands 1888, 63 ára gömul.
28. Halldór Sigurðsson, skipstjóri í British Columbía, (ættaður af Hvalfjarðaströnd á Íslandi), 46 ára.
30. Sólveig Marin, kona Valdimars Einarssonar í Winnipeg, 28 ára.
Sigfús Olafsson bóndi í Hallson-bygðinni í N.-Dakota, (úr Eyjafirði) 79 ára.

OKTOBER 1914.

7. Kristvilín Jónsdóttir, kona Davids Jónassonar í Winnipeg, (frá Skógarkoti í Arnessýslu), 41 árs.
12. Jón Olafsson, Brú í Argylebygð, Man., ættaður úr Eyjafirði, 85 ára, (er um hann ritað í þessu almanaki fyrir árið 1909).
20. Guðrún Arnadóttir í Minneota, Minn. 84 ára.
20. Jón Guðnason í Kandahar, frá Máskoti í Reykjadal, 34 ára.
23. Sveinbjörg Sveinsdóttir til heimilis hjá dóttur sinni Ragnhildi og manni hennar Gunnl. Jóhannsyni í Ballard, Wash. Hét maður hennar Sveinn Sigurðsson og bjuggu í Mjóafirði á Austurlandi, 81 ára gömul.
25. Hjálmar Guðmundsson í Selkirk, ættaður úr Mýrasýslu, einn af elztu landnemum Nýja-Íslands, 82 ára gamall.
30. Karólína Ragnheiður, dóttir hjónanna Magnúsar Kaprasíussonar og Guðnýjar Jónsdóttur (bæði úr Borgarfirði), til heimilis á Big Point, Man., 16 ára gömul.

NÓVEMBER 1914.

1. Steinunn Johnson í Garðarbygð N.-Dakota, móðursystir síra Lárusar heit. Thorarinsen, 57 ára.
5. Arni Jónsson við Winnipeg (ættaður úr Skagafirði. Heitir ekkja hans Guðrún Konráðsdóttir frá Glæsibæ í sömu sýslu, fluttu hingað 1887); 60 ára.
10. Jón Sigurðsson við Winnipeg, (ættaður úr Eyðaþinghá á Íslandi), 81 árs.

11. Jóhann Straumfjörð, að heimili tengdasonar síns, Ágústs Magnússonar, Otto, Man., háaldraður (sjá almanak þetta fyrir 1912 — landnámssögu Alftavatnsbygðar).
24. Vigfús Guðmundsson Melsteð, bóndi við Churchbridge í Sask. Fæddur að Borg í Borgarfirði 7. júlí 1842, voru foreldrar hans Guðmundur prófastur Vigfússon og Guðrún Finnbogadóttir. Tvígiftur, var fyrri kona hans Oddný Olafsdóttir Jónssonar frá Sveinsstöðum í Þingi, en síðari kona Þóra Sæmundsdóttir, er lifir mann sinn. Fluttu hingað vestur af Sauðárkrók.
25. Guðrún Margrét Eiríksdóttir, Vigfússonar í Winnipeg, 22 ára.
29. Guðmundur Guðmundsson og sonur hans 10 ára, drukknuðu í Rauðánni, (fæddur á Manaskál í Húnavatnssýslu 1879), til heimilis í Selkirk, Man.
30. Vilborg Jónsdóttir hjá tengdasyni sínum Sigvalda Nordal í Selkirk. (Frá Kringlu í Ásum í Húnsvatnssýslu), 88 ára.

---

# INNIHALD:

Tímatalið— Myrkvar — Árstíðirnar — Tunglið — Um tímatalið — Páskatímabilið — Páskadagur — Sóltími — Veðurfræði Herchel's — Fastastjörnur — Stærst í heimi—Fyrstu peningar—Ártöl nokkurra merkisviðburða—Til minnis um Ísland—Stærð úthafanna—Lengstur dagur—Þegar kl. er 12—Almanaksmánuðirnir.

Herbert Henry Asquith, með mynd. Eftir *F. J. Bergmann.*

Umsátrið um Parísarborg 1870. Sögusögn frakkneskrar konu *Aimée Gorges.*

*Safn til Landnámssögu Ísl. í Vesturheimi:* Saga Íslendinga í Utah. Eftir *E. H. Johnson.*

Guðbrandur Erlendsson. Æfisaga með mynd.

Helztu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga Vesturheimi.



# ÁGRIP

## af reglugjörð um heimilisréttarlönd í Canada Norðvesturlandinu.

---

Sérhver manneskja sem fjölskyldu hefir fyrir að sjá, og sérhver karlmaður, sem orðinn er 18 ára, hefir heimilisrétt til fjórðungs úr ,,section" af óteknu stjórnarlandi í Manitoba, Saskatchawan eða Alberta. Umsækjandinn verður sjálfur að koma á landskrifstofu stjórnarínnar eða undirskrifstofur í því héraði. Samkvæmt nmboði og með sérstökum skilyrðum má, faðir, móðir, sonur, dóttir, bróðir eða systir umsækjanda, sækja um landið fyrir hans hönd á hvaða skrifstofu sem er.

Skyldur.—Sex mánaða ábúð á ári og ræktun á landinu í þrjú ár. Landnemi má þó búa á landi, innan 9 mílna frá heimilisréttarlandinu og ekki er minna en 80 ekrur og er eignar og ábúðarjörð hans eða föður, móðir, sonar dóttur, bróður eða systur hans.

Í vissum héruðum hefir landneminn,sem fullnægt hefir landtökuskyldum sínum, forkaupsrétt (pre-emption) að sectionarfjórðungi áföstum við land sitt. Verð $3.00 ekran. Skyldur:—Verður að sitja 6 mánuði af ári á landi í 6 ár frá því að heimilisréttarlandið var tekið að þeim tíma meðtöldum er til þess þarf að ná eignarbréfi á heimilisréttarlandinu, og 50 ekrur verður að yrkja aukreitis.

Landtökumaður,sem þegar hefir notað heimilisrétt sinn og getur ekki náð forkaupsrétti (pre-emption) á landi getur keypt heimilisréttarland í sérstökum héruðum. Verð $3.00 ekran. Skyldur: Verður að sitja 6 mánuði á landinu á ári í þrjú ár, rækta 40 ekrur og reisa hús $300.00 virði.

W. W. CORY,
Deputy of the Minister of the Interior.